Fimtýgi

# Passíu-Psálmar,

orktir

af

## Hallgrími Péturssyni,

Sóknar-presti ad Saurbæ á Hvalfjardar-strønd, frá 1651 til 1674.

Editio XIX.



Seljast almennt innbundnir, 24 Skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1800.
Prentadir á kostnad Islands almennu Uppfrædingar Stiptunar,
Af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.



# I. Psálmur.

## Um Krists útgaungu í gras-gardinn.

Lagid er: Minstú, ó madur! á minn deyd.

Upp, upp, mín sál! og allt mitt géd, upp mitt hjarta og rómur med, hugur og túnga hjálpi til, Herrans pínu eg minnast vil.

2. Sancte Páll skipar skyldu þá, ad skulum vér allir jordu á, kunngjöra þá qvöl og daprann deyd, sem Drottinn fyrir oss auma leid.

3. [illegible]ann Jesúm til lausnar mér, fángadi þó ad deyja hér, mia skyld' og lysta ad minnast þess, mínum Drottni til þacklætes.

4. Innra mig loksins ángrid skér, æ! hvad er lítil rækt í mér; Jesús er qvalinn í minn stad, offjaldan hef' eg minnst á þad.

5. Sál mín! skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid Gud Drottinn vorn,

fordæmda aptur forlíkad, fognudur er ad hugsa' um þad.

6. Hvad stillir betur hjartans bol, enn heilög Drottins pína og qvol? hvad heptir framar hneixli' og synd, enn Herrans Jesú blódug mind?

7. Hvar fær þú betur, sál mín! sjed, sanna Guds hjartans ástar-géd, sem fadir gædskunnar féck til þín, framar enn hér í Jesú pín?

8. O Jesú! géf þinn anda mér, allt svo verdi til dýrdar þér, uppteiknad, súngid, sagt og tjed, sídan þess adrir njóti med.

---

9. Ad lidinni máltíd lofsaunginn, las sínum fødur, Jesús minn; sídarsta qvøldid, seint þad var, súngu med hans lærisveinar.

10. Guds Sonur sá, sem sannleiks rád, sjálfur átti á himni' og lád, þádi sitt braud med þackar-gjørd, þegar hann umgéckst hér á jørd.

11. Þurfa-madur ert þú, mín sál! þiggur af Drottni sérhvert mál, fædu þína og fóstrid allt, fyrir þad honum þacka skalt.

12. Jll-

12. Illum þræl' er það eillf smán, ef hann svo þiggur Herrans lán, drambsamlega og dreyssar sig; Drottinn geymi frá slíku mig!

13. Eptir þann saung, enn ecki fyr', útgéck Jesús um hússins dyr, að hans sidvenju er það skéð, til olíu-fjallsins gánga réð.

14. Lausnarans venju lær og haldt, lófa þinn Guð og dýrka skalt, bænarlaus aldrei byrjuð sé, burtfor af þinu heimile.

15. Yfirum Kedrons breidann beck, blessadur þá með sveinum géck; sá lækur nafn af sorta ber, sýnir það góðann lærdóm mér.

16. Yfir horniángar er mín leið, æ meðan varir lífsins skeið; undan géck Jesús, eptir eg á þann að feta rauna-veg.

17. Horfi eg nú í huga mér, Herra minn Jesú! eptir þér, dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ecki upphlaup hart, yrði þegar þú fánginn vart, út í gras-garðinn gécksiú því, gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því lær' eg ad elska' ei frekt, eg' id gagn-mitt, svo fridur og spekt, þess vegna rafkist, þér er kiært, þolinmædi og géd hógvært.

20. Sorgandi géckstú sagda leid, særdi þinn huga qvøl og neyd; hlæandi glæpa hliop eg stig, hefir þú qvittad fyrir mig.

21. Vort líf er gras-gards gánga rétt, grøfin er øllum fyrisett. Syndugra leid ei leik þér ád, lendir hún víst í qvala-stad.

22. Ydrunar-tárin ættu vor, øll hér ad væta lífsins spor, gégnum daudann med gledi og lyst, gaungum vér þá í himna-vist.

23. Þá Jesús nú á veginum var, vid Postulana hann ræddi þar: henda mundi þá hrøsun skiót; hardlega Pétur þrætti á mót.

24. Frelsarinn Jesús fyrisier, þá fall og hrøsun er búin mér, hann veit og líka tækníng þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrei, qvad Pétur: ætla eg, á þér hneixlast á nockurn veg, þó all-ir frá þér falli nú. Fullkomin var hans losan sú.

26. Sú von er bædi volt og myrk, ad voga freklega á holdsins styrk, án Guds nádar er allt vort traust, óstodugt, veikt og hjálparlaust.

27. Gef mér, Jesú! ad gá ad því, glas-kéri ber eg minn sésjód í, vidvorun þína virdi' eg mest, veikleika holdsins sjer þú best.

## 2. Psálmur.

### Um Krists qvøl í gras-gardinum.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús géck inn í gras-gard þann, Gethsemane var nefndur hann; af olíu þrúgun þad auk-nafn bar, olíu-tréd rétta Herrann var, oleum hjálpræðis allra fyrst, af hans lífi þar pressadist.

2. Í aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut, aldingards-eikin ávoxt gaf, eymd, synd og daudi kom þar af; í aldingardi sjúst lífsins tréd, lífgunar frjófgun veita réd.

3. Júdas þeckti vel þennann stad, þar hafdi hann lengi umhugsad, hélst mundi pláts þad hentugast, Herrann mætti

mætti þar forráðast, svo færstir hefdu' ad segja'af því, svik hans lægju svo hylming í.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um mig nótt og dag, hyggjandi' ad glögt hvar hægast er, í hættu' og synd ad koma mér; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg Gudi ad þjóna best.

5. Heims börnin hafa lyst þá lært, lygd og svikræði er þeim kjært, fótsporum djøfuls fylgjande, falsrádin draga þó í hlé. Frá hans og þeirra hreckja-stig, Herra Jesú! bevara mig!

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur gengid; því veit eg þad, hefir sannlega Herrann minn, hugsad um pínu og dauda sinn, fulltíngis bedid fødurinn þar, svo fengi hann stadist píslirnar.

7. Jurta-gardur er Herrans hér, helgra Guds barna legstadur, þegar þú gengur um þennann reit, þín sé til reidu bænin heit, andláts þíns gæt og einnig þá, upprisu-daginn minstú á.

8. Lærisveinana Lausnarinn kjær, lét suma bida nockud fjær, þrjá tók þó med sér hjarta hreinn, hann girntist ecki' ad vera einn; sála mín! þar um þenkja skalt, þér til lærdóms þad skédi allt. 9.

9. Guds kristni er gras-gardur hreinn, Gud Sonar ertú lærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sonn hlýdni besta offur er, til krossins ef hann þig kallar þar, kom þú gladvær án moglunar.

10. Freisting þúng ef þig fellur á, fordastú einn ad vera þá, gudhræddra selskap girnstú mest, géfa þeir jafnan rádin best; hluggun er manni monnum ad, miskun Guds hefir svo tilskickad.

11. Hjartanlega vard harmþrúnginn, Herrann Jesús í þetta sinn, holdid skalf vid þad feikna fár, flutu í vatni augun klár, sagdi grátandi: sál mín er, svo allt í daudann hrigg í mér.

12. Hartnær stein-snari frá þeim fór, fell strax til jardar Drottinn vor, flatur sitt blessad andlit á; ógnarleg qvol hann mæddi þá; hjartad barvist í brjósti heitt, bædi var líf og sálin þreytt.

13. Samviskan mig nú sjálfann slær, sie eg þad gjorla, Jesú kjær! mín synd, mín synd, hún þjádi þig, þetta allt ledstú fyrir mig, avi! hvad hef' eg aumur þræll, aukid þér mædu, Drottinn sæll!

14. Mér virdist svo sem mín misgjørd, sé meiri ad þyngd, enn himin og jord, því Jesús þad fødursins ordid er, sem allt med sínum krapti ber, flatur hlaut þó ad falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hjartans gledi og huggan traust, hér géfst þér, sál mín! efalaust, þad gjald fyrir mína misgjørd, er meira verdt enn himin og jord, hans sorg, skjálfti og hjartans pín, hjá Gudi er eilíf qvittan mín.

16. Fram þegar Jesús fallinn var, fegurstu bæn hann gjørdi þar: abba, fadir! ástkjæri minn, af mér tak þennann kaleikinn, þó svo sem helst þú sjálfur vilt, sagdi Jesús, med gédid stillt.

17. Urrædin best er audmjúkt géd, ángrad hjarta og bænin med, hvønær sem kémur hørmúng ad, hugsa þú, sál mín! vel um þad, óþolinmædi og møglan þver, meiri refsingar ablar sér.

18. Obljúgur skaltú aldrei neitt, útheimta hvad þú girnist veitt, til holds-

sins muna hentugt þér, hugsa jafnan: ad Drottinn sier, hvad lifi og sál ti' lids er nú, lángtum betur enn sjálfur þú.

19. Eins líkaminn og sálin sé, sann-audmjúkleg í bæninne, álítur Drottinn innra hitt, ei ad sidur skal holdid þitt, fyrir Gud med blygdun gánga fram, gjördi svo fordum Abraham.

20. Jesú þín grátleg gras-gards pín, gledur erþjáda sálu mín, þitt hjartans ángur hjartad mitt, frá hrigd og mædu gjördi qvitt; því skal míns hjartans hjartaþel, heidra þig minn Immanuel.

## 3. Psálmur.

### Um Herrans Krists dauda-stríd.

Med sama lag.

Enn vil eg, sál mín! uppá ný, upphaf taka á máli því: uppstód Jesús, þó þreyttur sé, þrísvarsinnum frá bæninne, lærisveinarnir sváfu fast, Sancte Pétur því ávitast.

2. Til og frá geck hann þrísvar þó, þar fèckst ei minnsta hvíld nè ró; undanfæri því eckert fann, allstadar Drottins reidi brann, gegnum hold, ædar, blód og bein, blossi gudlegrar heiptar skein.

3. Himna-ljósid var honum byrgt, heist því af nótt var ordid myrkt, ástvina hugg-un enga fann; allir sváfu um tíma þann; jordin var honum óhæg eins; engin fèckst bót til þessa meins.

4. Í þessum speigli þad sje eg, þeim sem Drottinn er reidur mjøg, hvorki verdur til huggunar, himin, ljós, jord nè skèpnurnar, án Guds nádar er allt um kring, eymd, mæda, qvøl og fordæming.

5. Framar sjest hèr hvad fárleg sè, fordæmdra qvøl í helvíte; frá einni plágu til annarar, í ytstu myrkrum þeir ráfa þar; o! hvad syndin afskapleg er, allt þetta færir hún med sèr.

6. Í þridja máta af þessu sjest, þad lærdu, sál mín! allra best, Guds reidi eld og eilíft fár, útslecktu og lægdu Herrans tár, allt honum því til ama var, svo allt verdi þèr til huggunar.

7. Hrigd-

7. Hrigdar-sporin þín, Herra minn! í himnaríki mig leida inn; í nætur myrkrum lá neyd á þér, nádar- og dýrdar-ljós gafst mér; vinir þér enga veittu stod, svo vinskap feng' eg vid sannann Gud.

8. Þar kom loksins á þeirri tíd, þreytti Jesús vid daudann stríd. Andlát mitt bædi og bana-sótt, blessadist mér þá somu nótt, daudinn tapadi, Drottinn vann, dýrdlegann sigur gaf mér hann.

9. Agéck svo daudans ablíd ríkt, eckert dæmi má finna slíkt: allur líkami Lausnarans, laugadist þá í blódi hans, sá dreira-sveitinn dundi á jørd, Drottins pína því mjøg var hørd.

10. J Adams broti var blódskuld gjørd, bølvun leiddi þad yfir jørd; Jesú blód hér til jardar hné, jørdin aptur svo blessud sé, ávøxtur, gródi og aldin klár, oss verdi' ad notum sérhvørt ár.

11. Sár kalda daudans sveita-bad, umsidir þá mér kémur ad; sárheiti dreira-sveiti þinn, sefi og mýki, Jesú minn! ängistar sveita eilíst bál, aldrei lát snerta mína sál'.

12. Mér er svo qvøl þín minnileg, á morgni hvørjum þá uppstend eg, fyrst

eg stíg nidur fæti' á jord, sær' eg Þér hjartans Þackargjord, blód-sveitinn Þinn eg bid mér sé, blessan og vernd á jordunne.

13. Hormúng Þá særir huga minn, hef eg mig strax í gr..s-gard Þinn, dropana tín' eg dreira Þíns, Drottinn! í sjódinn hjarta míns, Þad gjald alleina gyldir mest, hjá Gudi fyrir mín afbrot vest.

14. Upphaf alls mesta ósognuds, á-klogun strauug og reidi Guds, bætt er, fridstillt og forlíkad, Fadirinn lét sér lynda Þad, Sonurinn bar hans brædi frí, borg-adist Þrællinn út med Því.

15. Þess meir, sem pínan Þreyngdi ad, Því innilegar Jesús bad, heilagur Engill himnum frá, Herra sinn kom ad styrkja Þá. Enn hefir Þú hér einn lærdóm, ydka og lær hann, sál mín! fróm.

16. Ef hér verdur, sem opt kann ské, undandráttur á hjálpinne, bid, styn, and-varpa æ Því meir, sem aukast vilja harm-ar Þeir, fodurlegt hjarta hefir Gud, vid hvorn, sem lidur kross og naud.

17. Sjá Þú ad Engill sendur var, Syni Guds hér til huggunar, Þeir gódu andar oss eru nær, alla tíma Þá bidjum

vær, helst þá lífs enda lidur ad, Lazari dæmi sýnir þad.

18. Heidur, lof, dýrd á himni og jord, hjartanleg áſtar þackargjord, Drottinn Jesú! þér sætast sé, súngin af allri kristninne, fyrir stridid þig þjáde frekt, þad er vort frelsi æfinlegt.

## 4. Psálmur.

### Samtal Krists vid Lærisveinana.

Lagid er: Einn Gud Skapari allra sá.

Postula fjøri Kristur þrjá, í qvølinni sér ad vera hjá, baud þeim vakid og bidjid víst, brádleg freistni svo grandi síst.

2. Strax sem Jesús um stein-snar nær, stè fram lengra (þess gætum vær), allir sofnudu sætt med ró, sjálfur Herrann einn vakti þó.

3. Adur var svoddan um þig spád, á-sett framkom nú Herrans rád, þú hlaust Guds reidi-þrúgu einn þreyttur ad troda, Jesús hreinn.

4. Ef eg skal ecki sofa' í synd, svo er náttúran veik og blind, um stein-snar mátts

máttú eitt mér þá, aldrei, minn Jesú! víkj frá.

5. Nætur-hvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg, þá veit eg þig, hjá mér vaka til hjálprædes, hvort qvold vil eg mér óska þess.

6. Þrisvar Jesús til þeirra fór, þó ad hann mæddi pína stór; hann bad Pétur med hriggri lund, hjá sér vaka um eina stund.

7. En hann sofnadi æ því meir, ei heldur vissu sjálfir þeir, hvørju svørudu honum þá. Herrans pínu mjog jók þad á.

8. Mig hefir ljúfur Lausnarinn, leidt inn í nádar gras-gard sinn, vakandi svo eg væri hér, vitni skirnin mín um þad ber.

9. Ungdóms be: nskan, sem vonlegt var, vildi mig ofmjog svæfa þar; foreldra hirting hógværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10 Aldurinn þá mér odladest, áféll gjálífis svefninn mest; kennimenn Drottins komu brátt, kølludu mig ad vakna brátt.

11. Fukvaxinn gleymsku svefninn fár, sókti mig heim og vard mjøg dár, dymman heims elsku dróst ad med, daxurt vard mitt til bænar geð.

12. Þá kom Guds anda hræríng hrein, í hjarta mitt inn sá ljóminn skein, en í heimskunni svo eg svaf, sjaldan mig neitt ad slíku gaf.

13. Fárlega var mín siblskan blind, forlát mér, Jesú! þessa synd, hvar med ad jók eg hormúng þér, en hefnd og refsing sjálfum mér.

14. Láttú þó aldrei leidast þér, ljúfi Jesú! ad benda mér, hugsi til mín þitt hjarta mildt, hirdtú mig líka, sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjartans feginn fá, Frelsari minn! ad vaka þér hjá; andstinn til reidu er í stad, ofmjøg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med ljúfri lund, Lærisveinum ad hvíla um stund; því hann vorkénnti þeim og mér, þad eitt min blessud huggan er.

17. Sídarst allra þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, baud þeim: vak-

vakid og bidjid best, burt er nú værd-
ar tídin mest.

18. Svoddan áminníng, sála mín!
sannlega skyldi ná til þín, svo þig ei
skadi svefninn vær, svikarinn er þér ecki
fjær.

19. Daudinn forrædur fjorid þó, fyrr
enn vardi, því margur dó; hann er í
nánd þó sjáist síst, sérhvörn dag er hans
áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér,
dóminn hefir hann eptir sér, andskotinn
bídur búinn þar, í bálid vill draga sál-
irnar.

21. Sjá þú vel til, ad svoddann her,
sofandi komi ecki ad þér, í hreinni ydrun
þá hvörn dag vak, herskrúda Drottins á
þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig, bú-
in er freisting ymislig, þá líf og sál er
læid og þjád, lykill er hún ad Drott-
ins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er
ad sjón, heyrn og máli sneydt, svo er án
bænar sálin snaud, sjónlaus, kold, dauf
og rétt stein-daud.

24. Vak-

24. Vaktú, minn Jesú! vaktú' í mér, vaka láttú mig eins í þér, sálin vaki þá sofnar líf, sé hún ætíð í þinni hlíf!

## 5. Psálmur.

Um Gydínganna komu í gras-gardinn.

Lagid er: Heidrum vjer Gud af hug' og sál.

Medan Jesús þad mæla var, manns-fjøldi kom í gardinn þar, Júdas, sá Herra sinn forréd, sveinar Prest-anna og strids-fólk med, skridbyttur báru blis og sverd; búnir mjøg út í þessa ferd, um þad eg framar þenkja verd.

2. Verdur þad opt, þá varir minnst, voveifleg hætta búin finnst, ein nótt er ei til enda trygg, ad því á qvøldin, sál mín! hygg, hvad helst, sem kann ad koma' uppá, kjós Jesúm þér ad vera hjá, skelfing engin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, auð-kenni þeim, og svo vid lagt: hvørn eg kyssi, handtakid þann, høndlid med gætni og bindid hann. Varastú, sál mín! svik og prétt, þó synast megi' í hylm-ing sett, Drottinn augljóst þad dæmir rétt.

4. En

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad átti vid hann ad koma fram, þó géck hann sjálfur þeim á mót, þanninn rœddi med kjærleiks hót: ad hvørjum leitid hingad þér? hópur illmennis þanninn tjer: Jesúm nadverská nefnum vér.

5. Jeg er hann! sagdi Jesús þá, Júdas sjálfur stód flocknum hjá; óblugt var Drottins ordid þad, allir til jardar féllu í stad. Hvad hans óvini hreldi mest, huggar nú mína sálu best, í allri neyd þad auglýsest.

6. Þá eg fell edur hrasa hér, hærstur Drottinn vill reidast mér, þá segir Jesús: eg em hann, sem endurleysti þann syndarann, med mínu blódi og beiskri pín, brædi, fadir kjær! stilltú þín; eslaust er þad assökun mín.

7. Djøfull, synd og samvitskan ill, sálu mína þá quelja vill, eins segir Jesús: eg er hann, sem afmá þína misgjørd vann, líka sem vindur léttsær ský, lángt seykir burt, og sjást ei því; á mig trú þú, svo ertú frí.

8. Þegar mig særir sótt eda qvøl, sorgleg fátækt og heimsins bøl, jeg veit þú segir: jeg er hann, Jesús, sem lækna vill og kann, audlegd á himnum áttú víst, eymd þín og hrigd í gledi snýst, heiminn sigrad' eg, hrædstú síst.

9. A dauda-stund og dómsins tíd, Drottinn! þad skal mín huggan blíd, ord þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leidi' í himna-rann, þjón minn skal vera þar eg er; því hefir þú, Jesús! lofad mér, gladur eg þá í fridi fer.

10. Jeg segi á móti: jeg er hann, Jesú! sem þér af hjarta ann, ord þitt lát vera eins vid mig, elska eg, segdú, líka þig, eilíft þad samtal ockar sé, uppbyrjad hér á jordunne, Amen, eg bid svo skuli ské!

## 6. Psálmur.

### Um Júdasar koss og Krists fángelsi.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Frelsarinn hvorgi flýdi, fjandmenn þá láu senn, Herrann beid þeirra hinn þýdi, þeim leysdi á fætur enn. Hvorn helst

helst þeir hugsi' ad finna, hann spyr, (sem ljóst eg gét), jafnt sem fyrr, Júd-ar inna: Jesúm af Nazareth.

2. Eg em hann, aptur sagdi, ann-ad sinn Jesús hátt. Lærisveinunum lagdi, líknar ord þetta brádt: ef mín ydur lystir leita, þá látid þessa frí. Búinn var hann ad heita, hjálprædis ordi því.

3. Hér af má heyra' og skilja, Herr-ans vors Jesú makt, ecki gat án hans vilja, á hann neinn hendur lagt. Vid mig þó hatri hrefsi, heiptar-menn illgjarn-er, enginn kann, utan hann leyfi, eitt skérda hár á mér.

4. Födurnum hjarta hlýdinn, hann gafst á þeirra vald, sál mín! því sért ó-qvídin, sjá þitt óhlýdnis gjald, viljugur vild' hann bæta, víst er þín skylda' aud-sjen, ást og audsveipni mæta, áttú ad leggja igén

5. Júdas kom fljótt sem kunni, kyss-andi Jesúm nú, mælti flárádum munni: Meistari! sæll vert þú! Herrann hóg-værdar ríkur, hann sagdi: þú, mínn vin! med kossi Son mannsins svíkur! Síst mun því hefndin lin. 6.

6. Svo munn eplid eina, aumlega ginnti um sinn, fals-kośs því fèck ad reyna, Frelsari! munnur þinn; blídmælum djöfuls bægdu, svo bleckist eg ecki af þeim, heims hrecki líka lægdu, líf mitt og æru geym!

7. Audsjen eru' augum þínum, øll vjel og launsvik hèr, hrytt þeim úr huga mínum; hreint skapa gèd í mèr, virdstú mig vin þinn kalla, verda lát raun þar á, holds brest og hræsni alla, hindra og rek mèr frá.

8. Í hættu' og háska mikinn, hefir mig Satan leidt; o hvad opt eg verd svikinn! ei gèt eg hjá því sneydt, Son mannsins svikum mætti, saunlega uppá þad, svikanna háskinn hætti, hjá mèr ei finndi stad.

9. Munnur þinn (ad eg meina) minnist vid Jesúm bert, þá hold og blód hans hreina, hèr fær þú, sál mín! snert. Í Guds nafni' ad þèr gádú, gèf honum ei. kośs med vèl; í trú og ydrun þig tjádu, tilbú þitt hjarta vel.

10. Þángad þegar ad stundu, þusti illrædis lid, ljúfasta Lamb Guds bundu; lokid var øllum frid, hardsnún-um

um reipum reyrdu, ránglætis míns hann galdt, Drottinn í dróma keyrdu, dofnadi holdid allt.

11. Júdar Þig, Jesú! streingdu, jeg gaf Þar efni til, syndir mínar Þér Þreyngdu, Þess nú eg ydrast vil, glæpa-bond af mér greidir, og géf mér frelsid Þitt, andlegum dofa eydir, sem áfell hjartad mitt.

12. Guds Son var gripinn hondum, géfinn svo yrdi' eg frí, hann reyrdist hordum bondum, hlaut eg miskun af Því, fjotur Þúng og fángelsi, frekt lá, minn Herra! á Þér, daudans og djofuls helsi, duttu Því laus af mér.

13. Bid eg Þín bondin hordu, bindi nú hvorn ínnin lid, frá alls-kyns glæpa gjordum, og goldum heimsins sid, laus og lidugur andi, lífs medan dvelst eg hér, Þér sé jafnan Þjónandi; Þessa bón veittu mér!

## 7. Psálmur.

Um vørn St. Péturs og Malchuss ar eyra-sár.

Lagid er: Gæsku Guds vjer prísum.

Lausnárans lærisveinar, Þá litu atburd Þann, og Júda athafnir allar,

ar, allir senn spurdu hann; eiginn vér ecki' ad slá, óvina sveit med sverdi.? svo hér ei þyngra verdi, Sál mín! hér gjör ad gá.

2. Ef þú áforma vildir, eitthvad, sem vandi' er á, þarfleg rád þyggja skyldir, og þig vel fyrir sjá, af því optlegá skér, sá, sem er einn í rádum, einn mætir skada brádum, seint þá ad ydrast er.

3. En med því mannleg vitska, í morgu nair skamt, á allt kann ecki' ad gitska, sem er þó vandasamt; kost þann hinn besta kjós; Guds ord sær sýnt og sannad, hvad sé þér leyft edá bannad, þad skal' þitt leidar-ljós.

4. Pétur med svellu sinni, sverd úr slídrum dró; hans trú' eg brædin brynni, og beint í flockinn sló, Malchus hlaut hér af tjón, hann misti hid hægra eyra, hoggid tók ecki meira, þessi var Biskups þjón.

5. Lausnarinn ljóst nam svara, lærisveinunum fyrst: látid þessa framfara, frekast ad sinni lyst, Pétri svo sagdi nú: sverds dauda sá skal sekur, sem sverd án leyfis tekur, sverd slídra, Simon þú.

6. Meinar þú Fadirinn mildi, mundi ei senda hér, ef eg þess óska vildi, Engla til fylgdar mér, fleir enn tólf fylkingar? eda mun skyldt eg ecki, áskenktann kaleik drecki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllast ega, hvad er í Ritning tjád, og sídan sannast mega, hvad sjest fyrir laungu spád. Svo eptir sermon þann: eyra þjónsins áhrærdi, sem ádur Pétur særdi, læknad ad heilu hann.

8. Sál mín! lærum og sjáum, med sannri hjartans lyst, tvennslags sverds gløggt vid gáum, arema skal þar um fyrst: sverd Drottins Dómarinn ber, sverd eg- in-hefndar annad, sem ølltum verdur bannad; þad kénnir Kristur hér.

9. Bid eg: hér gløggt ad-gætir, góð Valdstjórn heidurlig! saklausann síst þú grætir, né sjálfa meidir þig, vird sverd Guds vandlætis, blód skaltú því ei banna, burtsníd þú grein lastanna; merk dæmi Móyses!

10. Þitt sverd, sem þitt er egid, fyrir þína egin sok, skal ei úr skeidum dreg-
id

id, skir eru þar til rok, Jesús það bannar bert, honum er skyldt þú hlýðir, hógvær umberir, líðir, það móti þér er gért.

11. Ræn ei Gud sínum rétti, því reiknast hefndin hans, Valdstjórn til verndar setti, víða um bygdir lands, ellegar að því gá: sverd Drottins, sem hér nefnist, sannlega á þér hefnist, tjón þitt tvöfaldast þá.

12. Malchus, sem misti eyra, merkir þá alla fri, sem ord Guds ecki heyra, ega þó kost á því, heyrn er þeim hægri sljó, vinstri hlust heillri halda, háð og spélni margfalda, nóg geta numið þó.

13. Skálka-mark mátti kalla, Malchus hér fengi rétt; á Guds óvini alla, einkenni slíkt er sett, ord hans ei akta hér; jeg bid og jafnan segi: Jesú minn! látú eigi, það merki sjást á mér!

14. Enn finnur þú hér framar, Frelsarans dæmid best: hörmúngar hættusamar, á honum láu mest, sitt traust þó setti hann, á Guds Föðurs gæsku ríka, gjör þú það, sál mín! líka, ef kross þig henda kann.

15. Qvol sina Jesús kallar: kaleik á-
skenktann sér. Kross þinn og eymdir
allar, eins máttú nefna hér; Því Drott-
inn drack þér til, fyrir þig þá hann
píndist, svo þú, mín sál! ei týndist, gjör
honum gjarnan skil.

16. Þú mátt þig þar vid hugga,
hann þeckir veikleik manns, um þarftú
ecki ad ugga, ádryckju skamtinn hans,
vel þín vanqvædi sier, hid súrasta drack
hann sjálfur, sætar' og minn' enn hálfur,
skérfur er skenktur þér.

17. Heipt mín' og hefndar næmi, hef-
ir þú, Jesú! bætt, mér gafst mann-
gædsku dæmi, þá Malchum fécktstú grædt;
eg þarf og einnig vid, eyrad mitt lækn-
ad yrdi, svo ord þitt heyri og virdi.
Þýdlega þess eg bid!

18. Hjálpa mér, Herra sæli! ad halda
kross-bikar minn, svo mig ei undan
mæli, né mögl' um vilja þinn. Eg bid:
almætti þitt, vorkenni minni veiki, ef
verda kann eg skeiki, hressstú þá hjartad
mitt!

# 8. Psálmur.

Prédikun Krists fyrir Gydingum.

Lagid er: Sá frjáls vid logmál fæddur er.

Taladi Jésús tíma þann, til vid é-
vini sína, sem komnir vóru' ad
høndla hann: heyrum þá kenníng sína.

2. Sem til illvirkja erud þér, út-
gengnir mig ad fánga; ádur gat eng-
inn meinad mér, í musterinu' ad gánga.

3. Daglega hef eg sýnt og sagt,
sannleiksins kenning mæta; enginn gat
hendur á mig lagt; ættud nú þess ad
gæta.

4. Yfir stendur nú ydar tíd, upp-
fyllt svo ritníng verdi, myrkranna geis-
ar maktin strid. Mæla svo Jesús gerdi.

5. Ljúfmyndi blessad Lausnarans, littú
hér, sál mín kjæra! sá vill ei dauda synd-
ugs manns, svoddan máttú nú læra.

6. Jesús þeim sýndi' í sanni rain,
sálar-heill, nád og frelsi, Guds Syni Júd-
ar guldu' í laun, grimd, hatur og fángelsi.

7. Furda því, sál mín! engin er, ei
skalt því dæmi týna, þó veroldin launi
vondu þér, velgjörd mjøg litla þína.

8. Gydínga dæmi skynja skalt, skil þig vid ódygd slíka, þacklæti fyrir gódgjörd gjaldt, Gudi og mönnum líka.

9. Jeg læt mér þessu jafnframt sagt, Jesú! af ordum þínum, enginn gat hendur á þig lagt, ad eginn vilja sínum.

10. Þann takmarkada tímans púnkt, tilsetti Fadirinn mildi, nær þad ánaudar okid þún-t, yfir þig gánga skyldi.

11. Eins upphaf líka og endíng med, allrar hörmúngar minnar, Fadir himneskt, er fyrirsjed, í forsjón miskunar þinnar.

12. Þessi nú tíminn ydar er, óvinum Jesús sagdi; Herrans eg þetta máltak mér, í minni og hjarta lagdi.

13. Nú stendur yfir nádar-tíd, naudsyn er þess eg gætti, lídur mig Drottins bidlund blíd, brot mín svo qvittast mætti.

14. Ef eg þá tíd, sem Gud mér gaf, gálaus forsómia nædi, Drottins tími þá tekur af, tvímælin öll í brædi.

15. Því lengur, sem hans bidlund blíd, bedid forgéfins hefur, þess hardari mun heiptin stríd, hefndar þá Drottinn krefur.

16. Guds vegna ad þér gæt, mín sál! glæpum ei lengur sinna, gjörum ydrun, þó mein enn mál, mun vera synd ad hafna.

17. J dag vid skulum skipta um skjótt, skal synd á flótta rekin; hvorr veit nema sé nú í nótt, nádin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um myrkra makt, merkid þad Valdstjórnendur, ydur skal nú í eyra sagt: umdæmid heims tæpt stendur.

19. Ljósid myrkrin burt leidir frá, med ljóma byrtu sinnar; varast ad fylgja skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Minstu ad myrkra maktin þver, þá myrkur daudans skalt kanna, í ystu myrkrum enginn sjer, adgreining höfdingjanna.

21. Myrkri léttari er maktin þín, minstu þess fyrir þinn dauda; þá Drottins hátignar dýrdin skín, hún dæmir eins ríka og snauda.

22. Fyrst makt heims er vid myrkur líkt, mín sál! haldt þér í stilli, varastu þig ad reida ríkt, á ríkis-manna hylli.

23. Drottinn Jesú! þú líffins ljós, lýstu valdstjórnar-monnum, svo þeir, sem ráða yfir oss, ebli st að dygdum sonnum.

24. Jesú! þín kalda qvala-stund, qvala-tíd af mér svipti, Guds barna gafst mér gledi-fund, góð vóru þau umskipti.

25. Myrkranna þreyngdi maktin þér, mig svo leysir úr vanda; qvalanna ystu myrkur mér, mega því aldrei granda.

## 9. Psálmur.

### Um flótta Lærisveinanna.

Lágid er: Jesú Kriste! þig kalla' eg á.

Þá lærisveinarnir sáu þar, sinn Herra gripinn høndum, og hann af fólki verstu var, vægdarlaust reyrdur bøndum, allir sem hønum flýdu frá, forlétu Drottinn hreinann, í háska einann. Að svoddan skulum vid, sál mín! gá, sjáum hér lærdóm hreinann.

2. Án Drottins ráda er adstód manns, í engu minnsta gyldi, sánýtt reynist opt fylgid hans, er frekost hjálpa skyldi; hvørr einn vill forda sjálfum sér, sýn-

synist háski búinn, ad hendi snúinn, far því varlega' ad fallvolt er, frænda og vina trúin.

3. J sama máta sjer þú hér, sál mín! í spegli einum, ad hryggilegar sè háttad þér, enn Herrans lærisveinum, þeir hösdu leysi Lausnarans, lisi ad forda sínu, frá sárri pínu, naudugir mistu návist hans; nú gæt ad rádi þínu.

4. Hvad opt, Jesú! þér flád'eg frá, frekt á mót vilja þínum, þá glæpa-veginn gèck eg á, girndum fylgjandi mínum? forskuldad hasd'eg fyrir þad, flóttamadur ad heita, til heljar-reita, en þú virdtist mér augnum ad, aptur í miskun leita.

5. Einn varstú, Jesú! eptir því, í óvina látinn höndum, einn svo eg væri aldrei í, eymd og freistingum böndum, allir forlétu einann þig, allt svo mig hugga kynni, í mannraun minni. Eg bid: Drottinn! lát ecki mig, einsamlann nockru sinni.

6. Lærisvein, sál mín! sjádu þann, sem Jesú eptirfylgdi, rá.glát úngmenni tæntu hann, rètt nakinn vid

hau skildi. Bersnoggur flótti betri er, enn bræðralag óréttinda, vid selskap synda, óvinníng lát þig engann hér, í þeirra flecki binda.

7. Hvit þadan Jesúm færdi fljótt, flockur illrædis-manna. Lamb Guds saklaust, þá leid ad nótt, leiddu þeir til qvalanna, miskunarlaus sú medferd bráð, mér yirdist eptir vonum í nátt-myrkrunum, þeir hafa bædi hrakt og hrjád, hrundid og þjakad honum.

8. Í daudans myrkrum eg dæmdur þræll, dragast átti til pínu, en þú tókst, Jesú Son Guds sæll! saklaus vid straffi mínu, þannig tilbjóstú Jesús leid, ljómandi sálu minni, þó lif hér linni, andláts qvölum og kaldri neyd, qvíd eg því engu sinni.

9. Hroktu því svo og hrjádu þig, Herra minn! illsku þjódir, ad hér nú bæri á hendum mig, heilagir englar gódir, mædusöm urdu myrkrin þér, mæta létu þig hordu, og hindrun gjördu, Guds dýrdar-ljós svo lýsi mér, á lifandi manna jordu.

10. Qvala for, Jesú! þessi þín, sem þá gëckst' einusinni, veri ¦ k aptur og verndin mín, svo veginn lífsins eg finni Lát ecki djøful draga mig, í dofinleik holdsins blinda, til sekta' og synda; eg bid af ást og alúd þig: ákësd hans búrt' ad hrinda.

# 10. Psálmur.

Um fyrsta ransak fyrir Caiphasi.

Lagid er: Guds Son kallar: komid til mín.

Til Hannas húsa Herrann Krist, hardrádir Júdar leiddu fyrst; heiskt frá eg bond hann særi, honum strax þadan vísad var, vidtekt seck eg ne hvíldir þar, mjog svo þótt mæddur væri.

2. Burtsendi því med beiskri pín, bundinn Caiphæ mági sin Hannas vorn Herrann sæta; Høfud-kënnimanns hærstu stétt, hafdi sá þetta ánid rétt, Guds logmáls átti' ad gæta.

3. Ur himnaríkis hvíldar-stad, hefdum vid, sál mín! forskuldad, út ekin víst ad vera, en Jesús tók nú uppá sig, ¦ eþadan þessa fyrir þig; lof sé þeim ljúfa Herra!

4. Hjartad bædi og húsid mitt, herbergi veri, Jesú! þitt, hjá mer þygg hvíld hentuga, þótt þú komir med krossinn þinn, kom þú blessadur til mín inn, fagn' eg þér fegins huga.

5. Caiphas hafdi hér um spád, hentugast mundi þetta ród, ad deÿ' einn fyrir alla. Embættis mælti andinn þar, af því hjartad ei vissi þar, sannleik Guds sinnti valla.

6. Balaams dæmi eins var eitt, andagift slík var honum veitt, spaklega túngan spádi, hann hafd' í sinni hreckja-rád, hjartad séck ecki sannleiks gád, því hann fégirndinn þjádi.

7. O Jesú! lát þinn anda hér, aldrei víkja í burt frá mér, leid mig veg lífsins orda, svo hjartad bæd' og málid mitt, mikli samhúga nafnid þitt, holds girnd og hræsni forda.

8. Til Caiphas vóru komnir senn, Kénni-valdid og Stjórnar-menn; Biskupinn þegar ad bragdi, leitar andsvars til Lausnarans, um lærisveina og kénning hans; enn Jesús aptur sagdi:

9. Opin-

9. Opinberlega, en ecki leynt, i musterinu kénd' eg beint; hvad spyr þú mig um þetta? kunngjöra mega þar um þér, þeir, sem lærdóminn heyrdu' af mér, þá láttú þig leidrétta.

10. Sæt ad, mín sál! og sjádú þar, Sonur Guds undir ransak var, krafdur þad qvöldid eina; á qvöldi hvorju þú koma skalt, qvöld-reikning vid þig sjálfa haldt, med qvöld-offurs vorún hreina.

11. Þú, Guds Kennimann! þenk um þad: þar mun' um sídir grenslast ad, hvorninn og hvad hér kenndir, ad læri-sveinum mun líka spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa gloggt hvar vid lendir!

12. Jesús vill, ad þín kénníng klár, kroptug sé hrein og opinskár, lík hvell-um lúdurs hljómi, laun-smjadran oll og hræsnin hál, hindrar Guds dýrd en villir sál, straffast med straungum dómi.

13. Vangætslan min er margvíslig, mildasti Jesú! beidi' eg þig, vægdú veik-leika mínum! forsóman engin fannst hjá þér, fullnadar bót þad tel eg mér, styrk veit þú þjónum þínum.

14. Eins er hér einnig öllum rétt, alvarleg kenning fyrisett, orð Guðs e'ki og læri: trúin innvortis efli geð, einarðleg játning líka með, ávöxt hið ytra færi.

15. Biskups-þjón einn í bræði þó, blessaðann Jesúm pústur sló, svo það Ritningin segir, hógværlegt andsvar Herrann gaf, honum, sál mín! það lær þú af, um sakleysi þitt ei þegir.

16. Ovart samvitskan Adam sló, illann kinnroða fékk hann þó, í fyrsta falli sínu: þess vegna Jesús höggið hast, hlaut að líða og roðna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú! eg þakka þér, þetta leiðst þú til frelsis mér; eg bið ástsemi þína: samvitsku slegin svíða skæð, á sálu minni þú mýkt og græð, burt-tak þú blygðun mína!

## 11. Psálmur.

### Um afneitun Péturs.

Lagið er: Dagur í austri öllu.

Guðspjalls-historian getur, gripinn þá Jesús var, allir, sem utan Pét-

Pétur, yfirgáfu hann þar, og læri-
sveinn einn annar, álengdar gengu
hljódt, Herrans braut hrigdar sanna,
harla dymt var af nótt.

2. Caiphas Kennimanni, kunnugur
lærisveinn, inngengur ꝼit med sanni,
úti stód Pétur einn, ambátt upplúka
beidir, ókénndann Pétrum þá, í for-sal
til lydsins leidir. Lærdóm hér finna má.

3. Krossferli' ad fylgja þínum, stýsir
mig, Jesú kjær! vorkénnú veikleik mín-
um, þó verd' eg álengdar sjær, þá trú
og þol vill þrotna, þreyngir ad neydin
vond, reis þú vid reyrinn brotna, og rétt
mér þína hond

4. Kol-eld, því kaldt var nærsta,
qveikt hafdi præla lid, Pétur med
stúrlun stærsta, stód hjá þeim logann
vid, ambátt hann ein sprogsetti, af
sér þad heyra lét: mun þessi mann,
hún frétti, med Jesú af Nazareth?

5. Hann nejtar hradt ad bragdi,
hræddur vid ordin bist, þann sig ei
þeckja sagdi: þá gól nú haninn fyrst;
ætlar sér út ad rýma, ønnur þerna hann
sá, talar í annann tíma, til þeirr' er
stódu hjá;

6. Af Nazareth nú er þessi, nýkominn Jesú med, hinnar géd trú' eg þad hvessi, hvørr madur spyrja réd: ert þú einn af hans sveinum? en Pétur nejta vann; sagdi med eidi einum: aldrei þeckta eg hann.

7. Þridja sinn þar til løgdu, þjónar Caiphas bert, málfærid sumir søgdu, segir til hvørr þú ert; frændi Malchuss' réd mæla: mund' eg þig ecki sjá, (gét eg síst grun mig tæla) í gardinum Jesú hjá.

8. Pétur med bljúgu bragdi, brádlega sagdi: nej! sór sig og sárt vidlagdi, svoddann mann þeckt' hann ei. Gløggt þegar gjørdist þetta, gól haninn annad sinn. Síst mátti sorgum létta, sút flaug í brjóstid inn.

9. Sál mín! Þér sári forda, freklega voga síst, án leyfis Drottins orda, óstyrkt er holdid víst, þykist þú stødugt standa, stillá þinn metnad þarst, hvørr sér vogar í vanda, vøu er sá falli snart.

10. Adur í aldin ardi, óhræddur Pétur var, karlmennsku hugurinn hardi, hans sig auglýsti þar; audvird ambátt hann hreldi,

hreldi, ofmjög því skelfast vann, frá sannleik síðan feldi, sama þig henda kann.

11. Kol-eldi qveiktum jafnast, kitlandi veraldar prjál, þrælar syndanna safnast, saman við losta-bál, fullir með fals og villu, fordastú þeirra glis, ætíð er með þeim illu, einfoldum búið slis.

12. Ambátt með hyldu bragði, er þessi verold leið, morgum mein-snorur lagði, mjög á spott-yrdin greið, þýið með þrælum sínum, þjóna Guðs lastað fær; styrk mig með mætti þínum, mót henni, Drottinn kjær!

13. Eptir afneitun eina, út vildi Pétur gá, hugdi hann braut sér beina, búna þeim solli frá. Þá kom eitt oðru verra: umkríngdu þrælar hann, affór sinn sæla Herra, sér og formæla vann.

14. Hægt er hvorjum að stofna, í hættu' og vanda-spil, forvitnis dælskan dofna, dregur þar margann til, ógæfu gyldran þraunga, greip skjótt þann kunn' að ná, útkomu von sék aunga; að því í tíma gá.

15. Opt má af máli þeckja, manninn, hvorr-helst hann er, sig mun fyrst sjálf-

sjálfann bleckja, sá með lastmælgi ser, gódur af gédi hreinu, góðorður reyníst víst, fullur af illu einu, illyrdin sparar síst.

16. Hriggileg hrøsun hendti, heilagann Drottins þjón, syndin mjøg sárt hann spennti, sálar var búið tjón; hvad mun eg máttar-naumur, mega þá standast vid, vangætinn, vesæll og aumur, vélum og hreckja-snid?

17. J veraldar vondsku solli, velkist eg, Jesú! hér, falli þad opt mér olli, óstodugt holdid er. megnar ei mót ad standa, mín hreysti náttúrlig, láttú þitt ljós og anda, leida og styrkja mig!

## 12. Psálmur.

### Um ydrun Peturs.

Lagid er: Kom Andi heilagi.

Pétur þar sat í sal, hjá sveinum inni, tvennt hafdi hana-gal, heyrt ad því sinni.

2. Bráinn var þeirsvar þá, þvert hann ad neita, sér Jesúm sælann frá. Sorg má þad heita.

3. Drott-

3. Drottinn vor veik sér við, (víst um það aftur), ljúfur með líknar sið, og leit á Pétur.

4. Strax flaug í huga hans, (hvað þó síst varði), Lausnarans orð og ans, í aldingarði.

5. Blygðaðist bráðt við það, brjóst fullt af trega, gêck út úr greindum stað, og grêt beisklega.

6. Sjá þú með sannri trú, sál mín ástkjæra! hvað framar hefir þú, hér af að læra.

7. Hátt galar haninn hér, í hvors manns æði, drýgðar þá syndir sjer, sem Pétur ræði.

8. Sárlega samvitskan, sekann' áklagar, innvortis aumann mann, ángrar og nagar.

9. Fær hann sig frjálsann síst, þó finnist hvergi, sem fugl við snúning snýst, þeim snaron heldur.

10. Vikja þó vilji hann, frá vondsku hætti, orka því eckí kann, af eiginn mætti.

11. Upp þó sér æli brátt, aptur að standa, sellur hann þegar brátt, í þýngri vanda.

12. Legs-

12. Logmál Guds hrópar hátt, hana-gal-annad, segir og sýnir þrátt, hvad sé þér bannad.

13. Þad þvíngar, þrúgar med, þad slær og lemur, sorgandi syndugt géd, sæ'r og kremur.

14. Þad verkar sorg og sút, þe'm seka manni, hjálpar þó engum út úr synda banni.

15. Hoídid þar þrjótskast vid, og þykkir illa, eykst á hann synda sid, svik, hræsni og villa.

16. En Jesú álit skírt, anda Guds þýdir, sá gjörir hægt og hýrt, hjartad um-sídir.

17. Lætur hann logmál bist, lemja og hræda, eptir þad ser hann fyrst, ad frída og græda.

18 Ord Jesú edla sætt, er hans verkfæri, he'st fær þad hugann kjætt, þó hreldur væri.

19. Hann gefur hreina trú, hann fallinn reisir, hann veikann hressir nú, hann bundinn leysir.

20. Ei er í sjálfs vald sett, (þem nockrir meina), yfirbót, ydran rétt, og trúin hreina. 21. Hendi

21. Hendi þig hrösun bráð, sem helgann Pétur, undir Guðs áttu náð, hvert ydrast getur.

22. Heimska er versta víst, við það að dyljast, þú munir þá þér lítst, við þrautir skiljast.

23. Ef Jesús að þér snýr, með ástar hóti, lítú þá huga hýr, honum á móti.

24 Gráta skalt glæpi sárt, en Gudi trúa, elska hans orðið klárt, frá illu snúa.

25. Ónýt er ydran tæp, að því skalt hyggja, ef þú í gjordum glæp, girnist að liggja.

26. Pétur þá formerkt fékk, fall-hrösun slíka, úr synda-salnum gékk, svo gjordú líka.

27. O Jesú! að mér snú, ásjónu þinni; sjá þú mig særdann nú, á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér, hvað mjög opt sannast, bend þú í miskun mér, svo meg' eg viðkannast.

29. Opt lít eg upp til þín, augum grátandi, lítú því ljúft 'til mín, svo leysist vandi!

## 13. Psálmur.

### Um Caiphasar Dóm.

Lagid er: Jesús Guds Son eingetinn.

Foringjar Presta fengu, fals-vitni mørg tilsett, fúslega fram ad gengu, fullir med svik og prett, samhljóda urdu eigi, uppdiktad margt þó segi, Jesús þá þagdi slett.

2. Lær þú, ef lygum mætir, lífs-reglu, sál mín! hér, med forsi og þjóst ei þræt-ir! þrálega svo tilber, hógvær þegn heipt-ir stillir, hemsk-ordur sannleik spillir, opt fyrir sjálfum sér.

3 Hirdt' aldrei hvad, sem gyldir, ad hætta' á ósatt mál, hvort verja' edur sækja vildir, veldur þad mørgum tál; munn-ur sá laungum lygur, frá lucku' og bless-un hnígur, hann deydir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi, sekann mig Gudi hjá, óttast þarf eg nú eigi, afsok-un hef'eg þá: ljúg-votta lygi megna, leid Jesús mína vegna, klogun mig keypti frá.

5. Caiphas frétti fyrstur, falsklega Herrann ad: sjálfur hvørt sé hann Krist-

Kristur? og svo enn framar qvad: vid sannann Gud eg þig særi, ef Sonur hans ert' hinn kjæri, segdú oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafnframt þvi svo nam tjá: Son manns sins sjá þeir mundu, sitja þadan i frá, til Kraptarins hægri handar, og hér eptir komanda, skjærasta skýi á.

7. Kennimann reif sín klædi, qvad: slikt Gudlastan er! adspyr med ógna brædi: um þad hvad haldid þér? allt Rádid undirtekur: er hann víst dauda sekur, svoddan samþyckjum vér.

8. Jesús ei ansa hyrdti, ádur þá logid var, Guds Nafn þó gjarnan virdti, gaf því Caipha svar; lygd heims þó litid sætir, Lausnarans dæmis gætir, leita Guds lof-dyrdar.

9. Hygg ad og herm hid sanna, hvoriær sem til er reynt, hrædst ei hótanir manna, haldt þinni játning beint, gæt vel ad geymir þetta, Guds ord og trúna rétta, medkénndu ljóst og leynt.

10. Caiphass' løgsogn leida, lært hafa margir enn, hvad sem høfdingjar beida,

hin-

hinir álykta senn, vinskap sig villa láta, viljandi raungu játa; fordíst þad fróm-ir menn.

11. Sú er mín huggun sama, sem þin var, Jesú minn! krossinn þá ad vill ama, ofsókn og hormúng stinn, hjá þinni hægri hendi, hér þó ad lífid endi, fagn-adar nægd eg finn.

12. Þér til Gudlöstun lagdi, ljúg-andi Kennimann, dauda sekann þig sagdi. Sannlega úrskurd þann, átt eg ad heyra heldur, hardt med réttu sakfeldur, víst eg nóg til þess vann.

13. Ankleªt vald einum rómi, úrskurd-ar daudann þér; Drottinn í nádar-dómi, dæmir þvi lífid mér. Þacka eg elsku þinni, þú keyptir sálu minni, frelsun og frelsi hér.

## 14. Psálmur.

### Um þjónanna spott vid Krist.

Lagid er: Allfagurt ljós oss byrtist brátt.

Eyrir þann dóm sem allra fyrst, and-legir dæmdu um Herrann Krist, hafa þeir, þvíad þá var nótt, þegar til hvíldar gengid skjótt.

2. Drott-

2. Drottinn vor eptir þreyttur þar, þrælum til gætslu fenginn var; gjørdi ad honum gis og dár, gudlausra manna flockur þrár.

3. Hádúng, spottyrdi, hróp og brixl, hvørr lét med ødrum gánga á vixl, hræktu og slóu Herrann þar; hann þó á medan bundinn var.

4. Sjá þú og skoda, sála mín! saklausa lambsins beisku pín, hugsa vandlega um þad allt, af þessu hvad þú læra skalt.

5. Hann, sem ad nætur-hvíld og ró, hvørri skepnu af miskun bjó, í sinni ógna eymda stærd, engann kost seck á neinni værd.

6. Hvíldar-nótt marga hef eg þád, Herra Jesú! af þinni nád; qvol þín eymdum mig keypti frá, kannast eg nú vid gædsku þá.

7. Nær, sem eg reyni sorg og sótt, seinast adkémur daudans nótt, nætur-qvala, sem neyddu þig, njóta láttu þá, Jesú! mig.

8. Samvitsku slog og Satans hád, sefi, Jesú! þín blessud nád, ofbod dauds-

 ens

ans og andláts pín, aftaki' og mýki gæðskap þín!

9. Margur (og víst það maklegt er) mjög þessum skálkum formæler, þó finn-ast nockrir hér í heim, ad hegdun allri líkir þeim.

10. Hvad gjøra þeir, sem hér á jørd, hafa ad spotti Drottins ord, lifa í glæp-um ljóst til sanns, lasta og forsmá þjóna hans?

11. Sá, sem Guds nád og sann-leikann, sier, þeckir, veit og skynja kann, kukl og fjølkingi kynnir sér, Caiphas's þrælum verri er.

12. Soninn Guds ecki þecktu þeir, því syndga hinir lánatum meir, sem kall-ast vilja kristnir best, Kristum þó lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir, sem hrecki' og synd, hylja þó undir frómleiks mind, lík-jast þessum, sem Lausnarann, lomdu blind-andi' og spjødu hann.

14. Hvorjum, sem spott og hædn' er kjær, hann gengur þessum selskap nær, forsmán gudrækins fátæks manns, fyr-irlitning er Skaparans.

15. Ó!

15. O! veſæll madur! ad þvi gá: eptir mun koma tími ſá, ſama hvad nidur ſádir hér, ſiálfur án efa upp þú ſkér.

16. Ef hér á jørd' er hróp og hád, hædni og gudlaſt' nidurſád, uppſkorid verdur eiliſt ſpé, agg og forſmán í helvíte.

17. Ætla þú ecki, aumur mann! afkomaſt muni ſtrafflauſt hann, ſem Soninn hefir hér hædt og ſpjad, horfi Fadirinn uppá þad.

18. Hvad Jeſús nú um nætur-ſkeid, naudſtaddur hér af mønnum leid, ógudlegur um eiliſd þá, af íllum djøflum lída má.

19. Ókenndum þér, þó aumur ſé, aldrei tillegg þú hád né ſpé, þú veitſt ei hvørn þú hittir þar, heldur enn þeſſir Gydíngar.

20. Siálfann ſlær mig nú hjartad hardt, hef' eg án efa mikinn part, af ſvoddan íllſku áſtundad, audmjúklega eg medgeng þad.

21. Sád hef' eg nidur ſynda rót, ſvívirding mín er mørg og ljót; uppſkerutímann óttaſt eg, ángraſt þvi ſálin nærſta mjøg.

22. Herra minn Jesú! hørmúng þín, huggun er bædi og lækníng mín, sakleysi víst þú sádir hér, sælunnar ávøxt gafstú mér.

23. Blód-dropar þínir, blessad sád, ber þann ávøxt, sem heitir nád, þann sama Gud mér sjálfur gaf, sáluhjálp mín þar sprettur af.

24. Hæddnè varstú til heidurs mér, høgg þín og slög mín lækníng er, aldrei mun djøfull ega vald, á mig ad leggja syndagjald.

25. En þér til heidurs aptur á mót, ydrast vil eg og gjøra bót, holds vilja gjarnan hepta minn. Hjálpi mér, Jesú! kraptur þinn!

## 15. Psálmur.

Um rádstefnu Prestanna yfir Kristi.

Lagid, er: Krists er koma fyrir høndum.

Mjøg árla uppi vóru, Øldúngar Júda senn, svo til samfundar fóru, fyrstir þó Kennimenn, í rádslag létu leidast, (líkar þad øllum vel), hvørnig þeir gætu greidast, Guds Syni komid í hel.

2. Heimtu

2. Heimtu med heiptar-lundu, Herr-ann vorn til sín brátt, orsøk því enga fundu, allir senn mæltu hátt: seg oss, ef ert þú Kristur, einasti Son Guds sá? Grædarinn gædsku lystur, gaf andsvar þar uppá:

3. Þó ydur eg þad segi, ecki samt trúid þér, andsvarid mér og eigi, ef eg spyr nockurs hér; Mannsins Son sjáid sitja, senn hjá Guds hægri hlid, í skýi mun einninn vitja, aptur med dýrdar sid.

4. Ertú Guds Son, þeir søgdu? svaradi Drottinn: já! djarfir þann dóm á løgdu: Dauda-madur er sá, Uppstódu strax ad stundu, strid þeim í hjarta brann, Frelsarann fjøtrum bundu, færdu Pilató hann.

5. Hér máttú, sál mín! sanna, svo géngur þad til víst, ástundun illvirkjanna, umhyggju vantar síst, árla þeir bländi bréjda, binda fast oll sín rád, klóklega hreckjum hegda, hvorr, sem þess fengi gád.

6. En þú, sem átt ad vera, útvalinn Drottins þjón, verk hans og vilja gjøra, og varast þitt sálar-tjón, andvara eng-

 ann

ann hefur, umhyggju-lítill sjest, vid glis heims gálaus sesur. Gud nádi svodd-ann brest!

7. Margir upp árla rísa, ei akta sofi vært, eptir aud heimsins hnýsa, hvörs gagnid er þeim kjært; sálin í brjósti sofn-ud, sýnist ad mestu daud, til allra dygda dofnud, sem Drottinn helst þó baud.

8. Forsjónar Verk-menn vísir, vín-gardi Drottins í, fyrst þá dags-ljóminn lýsir; ljúft bid eg gjæti' ad því, um sitt embætti hyggi, árla gjörd bænin sé, yd-juleysir ei liggi, í líkamans gjálífe.

9. Haturs-menn Herrans vaka, hugs-andi' ad gjöra tjón; eptir því átt' ad taka, ef ertu' hans trygda-þjón: viljir þú vid þeim sporna, og varast þeirra hád, árla dags alla morgna, vid ord Guds haltu rád.

10. Þenk nú í þínu hjarta, þar nærst í annann stad, hvar um Herrann réd qvarta, hygaja máttu þar ad: ordum hans ecki treystu, illgjarnir Júdar þeir, úr spurning engri leystu, æ því vestnudu meir.

11. Hvörr trúir nú hardt þó hóti, Herrann syndugum lýd? all-færstir jinna á móti,

móti, ydrunar svorin blíd; hyrtíngar hjálpa ecki, heimur veftnandi ser, blindleikinn trú eg oss blecki, búid straff nálægt er.

12. Víst er eg veikur ad trúa, veitstu þad, Jesú! best, frá syndum seinn ad snúa, svoddan mig ángrar mest; þó framast þad eg megna, þínum ordum eg vil, treysta og gjarnan gegna; gef þú mér nád þar til!

13. Þar nærst ad þessu gætir, þad er og lærdóms grein: ef þú orétti mætir, affókun dugir ei nein, hafdu þá bidlund hyra, Herrann mun til þín sjá, lát þolgeds dæmid dyra Drottins þig hugga þá.

14. Mér er, sem í eyrum hljómi, úrskurdur Drottins sá, árla ó eftta dómi, upp þegar daudir stá, affókun ei mun stoda, andsvör né spurníngar, sá stendur víst í voda, sem verdur sekur þar.

15. Hér er nú kostur ad heyra, Herrann talandi í nád, opni, Jesús! mitt eyra, svo ad því fengi gád; hógvær vors bata bidur, blessadur þessa tíd, annars heims er hann stridur, öllum forherdtum lýd.

16. Árla úrskurdinn lögdu, á þig Gydíngar þó, Jesú! og sekann sögdu, seldu þig Pilató: árla á efsta degi, assokun gjöldir sú, til dauda' eg dæmist eigi, Drottinn, þess minnist þú!

17. Árla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn! hjálpar hradur, hugsa þú æ til mín! árla á efsta dómi, assokun vert þú mér, minnstú þá Frelsarinn frómi, hvad fyrir mig leidstú hér!

## 16. Psálmur.

### Um Júdasar ydrun.

Lagid er: Konúng David, sem kjenndi.

Júdas í girndar grádi, af Gydíngunum fyrst, þrjáthygi peninga þádi, því sveik hann Herrann Krist; ljóst þegar líta vann, Drottinn var nú til dauda dæmdur og þúngra nauda, ydradist eptir hann.

2. Greidt í musterid gengur, (greinir svo Ritníng frá), um sylfrid sinnti ei lengur, senn vill þad Prestum fá, sagdi med sárum mód: o! hvad eg gjördi illa, þá yfir mig kom sú villa, ad sveik eg saklaust blód!

3. Lidsemd Prestarnir lögdu litla, sem von var ad, hardlyndir honum sögdu: hvad egum vér med þad? þú mátt einn siá um þig. Sylfrinu' á gólfid grytti, gèck þadan, mjøg sér flytti, og hengdi siálfann sig.

4. Rádstefnu Herrar hèldu, hættu þar senast vid, fyrir akur siálfir seldu, sylfrid Leir-kèra smid. Adur sagt um þad var, i spádóms sögnum sönnum: sá var vegferdar-mønnum, géfinn til greftrunar.

5. Siá hér, hvad illann enda ótrygd og svikin fá; Júdasar likar lenda, leiksbródur sinum hiá, andskotinn illsku flár, enn hefir snoru snúna, snogglega þeim tilbúna, sem fara med fals og dár.

6. Otrú sinn eginn Herra, ætid úm hálsinn sló, enginn fèck af þvi verra, enn sá meinlausum bió, forrædi, fals og vél, Júdas þvi henging hendti, hann fölskum til sin bendti, eins og Achitóphel.

7. Fé-girndin Júdam feldi, fyrst var hans adtekt sá, Guds Son Gydingum seldi, gleymdi þvi æru' og trú, svo til um sidir gèck, kastadi keyptum audi, þá

qvaldi sorg og daudi, huggun alls enga feck.

8. Undir-rót allra lasta, ágirndin koll-ud er, frómleika frá sér kasta, fjárplógs-menn ágjarner, sem sreklega elska féd, audi med okri safna, andlegri blessun hafna, enn seija sál' í ved.

9. Annadhvort er í vonum, audur-inn fagur nú, hafnar þér, ellegar hon-um, hriggur burtkastar þú, þá daud-inn þreyngir ad, ágyrndin ótæpt svelgir, af því sálina velgir, í koldum qvala-stad.

10. Fálsi og fégyrnd rángri, forda þér, sál mín! bid, svo mætir ei ógn né ángri, þá adfer daudans tíd, vird lít-ils veraldar plóg, hvorr, sá sér lynda lætur, þad lénar Drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús ádur hafdi, áminn-ing Júdas gjort, hreckvísin hjartad vafdi, hann héldt þad einkis verdt, nú kom þar einnig ad, tilsegn hatadi hreina, hugg-un feck því ei neina, varastu víti þad.

12. En hvad framleiddi hann illa, ád-ur kiserni sitt, þessi þó var hans villa, verri' enn allt annad hitt, ad hann' ör-

vænting med, sál og líf setti' í vanda, synd á mót' heilögum Anda, held eg hér hafi skéd.

13. Í Drottni' ef villtú deyja, Drottni þá lifdú hér, til ills lát ei þig teigja, ord Guds sé kjærast þér; sall er sá svo vid býst, en ef þig ósall hendir, aptur í tíma vendir, undandrag ydrun síst.

14. Brot þín skalt bljúgur játa, en bid þó Gud um nád, af hjarta hriggur gráta, en heilnæm þyggja ráð; umfram allt þenktú þó: Son Guds bar þínar syndir, og svo þú miskun findir, saklaus fyrir sekann dó.

15. Drottinn! lát mig ei dyljast, djarflega syndir vid, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bid; nær heimi fer eg frá, örvænting ei mér grandi, ord þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt huggi þá!

## 17. Psálmur.

Um Leirkéra-smids akurinn.

Lagid er: Fadir! á himna hæd.

Svo sem fyrr sagt er frá, sylfur-peninga þá, hvorjir loks Júdas hreldu, Höfud-prestarnir seldu. 2. Og

2. Og keyptu einn (til sanns) akur Pottmakarans, þar má fullt frelsi hafa, framandi menn að grafa.

3. Þar finnst ein þýðing sín, þess gættu, sála mín! af Guðs ásettu ráði, um það Zacharías spáði.

4. Líkist Leir-kéra-smið, líknsamur Drottinn við, sem fyrr Esajas sagði, sjálfur það rétt útlagði.

5. Af leir með lífsins krapt, lét hann mannkynið skapt, hrein kér til heiðurs setur, hin önnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum salur sá, minnstú, hann miskun heitir, mæddum lýð huggun veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti þann, en hans blóð-dropar blíðir, borgunar-gjaldið þýðir.

8. Framandi fólkið það, sem féck ei neinn hvíldar-stað, erum vér sorgum setnir af syndugu' eðli gétnir.

9. Illskunnar eðlið vort, útlenda hefir gjört, oss frá eilífri gleði, í Adams falli það skéði.

10. Sálin í útlegð er, æ meðan dvelst hún hér, í holdsins hreysi naumu, hald-in fángelsi aumu. 11. Dauð-

11. Daudinn med dapri sút, dregur um sidir út, hana, þá hreysid brotnar, holdid í jördu rotnar.

12. Eins og útkastad hræ, (ef eg rétt skynjad fæ), hjálparlaus sál má heita, hvildar kann sér ei leita.

13. Hættu og hörmúng þá, Herra minn Jesús sá, önd vora' af ást og mildi, úr útlegd kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lét, fridar-stad sálum hét, ef Sonurinn gjald þad greiddi, sem Guds réttlætid beiddi.

15. Opnadi sjódinn sinn, Sonur Guds, Jesú minn! húdstrýktur, qvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blód-dropar dundu þar, dýrasta gjald þad var; keyptann akur því egum, óhræddir deyja megum,

17. Hér þegar verdur hold', hulid í jardar mold, sálin hrigdarlaust hvílir, henni Guds miskun skýlir.

18. En þú skalt ad því gá: akursins grestrun þá, engir utan þeir fengu, í Jerúsalem gengu.

19. Kristnin Guds hér um heim, heitir Jerúsalem, í hau' innkomast hlýtur, hvorr, sem miskunar nýtur. C 7 20. J

20. Í henni hvörr einn sá er, á Jesúm trúir hér, skírdur og alla vega, yðrun gjörir daglega.

21. Óqvídinn er eg nú, af því eg hef' þá trú: miskun Guds, sálu mína, mun taka í voktun sína.

22. Hvörnig sem holdid fer, hér þegar lífid þver, Jesú! í umsjón þinni, óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, Lausnari! þig, sem leystir úr útlegd mig, hvíld nœ eg nádarspakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akurinn þinn, þér gef eg aptur minn, ást þína á eg ríka, eigdú mitt hjarta líka.

25. Eg gef og allann þér, æ medan tóri eg hér, ávoxtinn ydju minnar, í akri kristni þinnar.

26. Eins bid eg aumur þræll: ad unnir þú, Jesú sæll! sidnum líkama mínum, legstad í akri þínum.

27. Hveiti-korn þecktú þitt, þá upprís holdid mitt, í bindíni barna þinna, blessun lát þú mig finna!

# 18. Psálmur.

## Um áklögun Gydinganna fyrir Pilató.

Lagid er: Sælir eru, þeim sjálfur Gud.

Arla, sem gloggt og greina vann, med Guds Son bundinn fara, Prestarnir, svo ad píndist hann, til Pilatum Landstjómara; í Þing-hús inn, þad sama sinn, sagt er þó enginn kæmi, svo ecki meir, saurguðust þeir. Sjá hér hræsninnar dæmi.

2. Inngáng um húss-dyr Heidíngjans, héldu þeir synd bannada, en saurgast á blódi saklauss manns, syndist þeim engann skada. Heims bornum hér, óvirdíng er, aumstoddum hjálp ad veita, Guds ords forakt, ágirnd og prakt, engin misgjord skal heita.

3. Pilatus, sem þad formerkt fékk, fyrst ei þeim metnad sætti, án dvalar sjálfur út því geck, embættis skyldu gætti, sakargift þá, vill fulla fá, framborna af þeirra munni, dár-yrdin ljót, drambsemi mót, Dómarinn finna kunni.

4. Lát þér ei vera afmán að, ef þú vilt frómur heita, af Pilató ljóst að læra það, sem loflegt er eptir að breyta, ránglætið hans, þess heiðna manns, haldt þér minkun tvöfalda; þeim miður fer, enn honum hér, hvorr vill þann kristinn halda?

5. Álitið stórt og hefðar-hátt, hræðast skyldir þú ecki, sannleikans gæta ætíð átt, engin kjafts-mál þig blecki. Æru-girnd ljót, hofmóðug hót, hæfir síst Yfir-mönnum, drámblátum-þar, þú géf andsvar, þó byggt á rökum sönnum.

6. Öldúngar Júða allra fyrst, uppbáru sök þrefalda: fólkinu þessi fráfögn víst, fyrirbýður að gjalda, Keisarans skatt, það segjum vér satt; sjálfur vill Kóngur heita; og Kristur sá, sem koma á, qvittun og frið að veita.

7. Hér koma fram þau réttu rök, ræðu og þánka minna! þér, Jesú! géfin var þrefold sök, það kann eg gloggt að finna; þrefaldleg sekt, mig þjáði frekt, þar um eg klagast mætti: þrefalda styggð, og þúnga lygð, þú leiðst með sögðum hætti.

8. Fráſnúið Guði allt mitt er, edlið og líf ſáneyta, oðrum því gef eg opt af mér, ill dæmi ſvo að breyta; en hér á mót, með elſku hót, oll Guðs born rétt því trúa, frá bolvun, deyð, djofli og neyð, Drottinn réð lyðnum ſnúa.

9. Guði átt' eg að greiða frí, gjald, hlyðni' og þackar-ſkyldur, ránglega hef eg haldið því, hondlað ſem þræll ógyldur: auðſveypnin þín, fyrir ollum ſkín, áſtſemdar Herrann kjæri! þá bauðſt: géfið, (gafſt ſjálfur með), hvað Guðs og Keiſarans væri.

10. Sannlega hef'eg hrokað mér, hærra enn vera ſkyldi, boð og ſkipun míns Herra hér, haldið í minſta gyldi; Kóngdóm í heim, og heiðri þeim, hafnaðir þú og ſíðir, hátignin þín, á himnum ſkín, hún mun byrtaſt um ſíðir.

11. Rægður varſtú fyrir ránga ſok, réttláti Jeſú mildi! uppá það oll mín illſku rok, afplánuð verða ſkyldi; áklagan ſú, ſem þoldir þú, þeſs bið eg Herrann frómi; ſé mitt forſvar, þá finnſt eg þar, fyrir þeim ſtránga dómi.

## 19. Psálmur.

### Játning Krists fyrir Pílató.

Lagid er: Mitt hjarta! hvar til hriggist þú.

Gýdíngar hofdu' af hatri fyrst, hardlega klagad Jesúm Krist, sem ádur sagt er frá, Landsdómarinn gjordi' ad gá, alegt hvad þeyddi framburdur sá.

2. Áklögun fyrsta andleg var, um þad Pilatus sinnt' ei par, onnur um skyldu-skatt; hann vissi vel þeir sögdu' ei satt, svoddan málum þegjandi hratt.

3. En sem þeir nefndu Kónginn Krist, kom honúm þá til hugar fyrst, hvad ádur heyrdi' og nam, af Júdum mælt um Messíam, ef mætti ské þad kæmi ná fram.

4. Pílati sinni' í sumum finnst, sem um Guds dýrkun hugsa minnst, Hofdíngjum hræsna tídt, undirsáta frelsid frídt, fjárplógs gjarnir ræksja ná lítt.

5. Hyrdstjórinn spurdi Herrann þá: hvørt hann sé Júda Kóngur sá? en Jesús aptur tjer: talar þú svo af sjálfum þér, eda sögdu adrir þvílíkt af mér?

6. Þá vard Pilati þelid kaldt, þig hatar, sagd' hann, fólkid allt, hvad illt

illt hefir þú gjørt? aptur Jesús ans-
ar bert: er þad nærsta þenkingar verdt.

7. Mitt ríki' er ecki hédan af heim,
herdt mundi annars móti þeim, strída
minn maktar-hér, sem nú mig seldu'
i naudir h'r, svo nædu ecki Gydíng-
ar m r.

8 Pilatus aptur ansa vann: ertú
þó Kóngur? sagdi hann. Játadi Je-
sús því, hingad barst eg heiminn í,
ad herma skyld' eg sannleikann frí.

9. Hvørr af sannleiknum sjálfur er,
sá mína røddu heyrir hér. Hædnis-
svar hinn til sann: hvad er sannleikur?
sagdi hann; svo géck burt med úrskurd-
inn þann.

10 Hér máttú, sál mín! heyra fyrst,
Herrann Jesús er Kóngur víst, þó ecki'
ad heimsins hátt, svoddan vel þú at-
huga átt, þad eykur gledi hjartanu þrátt.

11. Kóngs tign þín, Jesú! eilíf er,
allir þyggja sín völd af þér, høfdingjar
hér um heim, þú lénar, gésur, lánar
þeim, löndin, ríki, metord og seim.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis hønd,
forsvara Kóngar ríki' og lönd, sem er
þeim

þeim undirlagt, en móti djofli' og dauds ans makt, dugir engin hofding, prakt.

13. Þú hefir sigrad synd og deyd, sjálfann djoful og vítis neyd, hádir eitt heriegt stríd, allann svo þinn leystir lýd. Lof sé þér um eilífa tíd!

14. Andlegt þitt ríki og eilíst er, ord sannleiks því rétt stjórnar hér, þinn veldis-vondur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En fyrst þitt ríki andlegt var, um það heimurinn sinnt' ei par, hann fann ei' hofmód sinn, hjá þér, Jesú Herra minn! hatadi allann góðvilja þinn.

16. Undrast þol, sál mín! ecki þarft, þó adkast veraldar lídir margt, þar um þér þenkja ber, ertú nú í útlegd hér, annars heims þitt fódurland er.

17. Sannleika-Kóngsins sannleiks-raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undir-mann, því slægd og lýgi hatar hann, hreinhjortudum miskunar ann.

18. Ef þú, mín sál! í Gudi glodd, girnist ad heyra Kóngsins rodd, gættú þá gjorla hér: hvad bodá Drottins þjónar þér, þeirra kénning raustin hans er.

19. Kann-

19. Rannsaka, sál mín! orð það ert, að verður spurt: hvað hefir þú gjört? þá Herrann heldur dóm, hjálpar engum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. En sekum þess þú ei saklaus ert, sjálfa spyr þig: hvað hefir þú gjört? um hvorn umliðinn dag; yðrun gjör og grát þinn hag, Guðs Son bið það færa í lag.

21. Allt hef' eg, Jesú! illa gjört; allt það að bæta þú kominn ert, um allt því eg qvittur er; allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bið eg, hjálpa þú mér!

## 20. Psálmur.

### Önnur áklögun Gyðinga fyrir Pilató,

Lagið er: Óvinnanleg borg er vor Guð.

Pilatus hafði prófað nú, píslar-sök Jesú gefna, klén virðist honum Köngs-tign sú, þá Kristur sannleik réð nefna, heims sannleik heiðra leist, hæddi Guðs sannleik mest, sannindin elska ber, orð Drottins láttu þér, kjærast þó allra efna.

2. Jafnódt þá gánga Jarlinn ráð, til Júda út ad bragdi: enga søk þeyssum manni med, má eg finna, hann sagdi; Gydíngar heldur hardt, Herrann kløgudu um margt, med ædi, ógn og dramb, eins rétt sem meinlaust lamb, Lausnarinn ljúfur þagdi.

3. Hann hefir uppæst lýdinn lands, lengi mjøg vída kenndi, frá Galilæa og svo til sanns, um sídir allt hingad vendi. Pílatus hugdi hér, hrynda þeim vanda af sér, Heródes hafdi því hyrdstjórn þeim parti í, til hans því Herrann sendi

4. Fyrir mig, Jesú! þoldir þú, þjáníng og beyska pínu, hjartad gledst því eg heyri nú, hrósad sakleysi þínu: syndin lá sárt á mér, sok fannst engin hjá þér, svo er sakleysi þitt. sannlega ordid mitt, vid málefni tókst þú mínu.

5. Løgmál Drottins þá hefndum hardt, hótar mér eptir vonum, aptur, minn Jesús ansar snart: engin sok finnst med honum, sakleysi mitt til sanns, segi eg nú ordid hans, engin áklogun fljót, orka skal neitt á mót, mínum þolyndis þjónum. 6. Snyts

6. Onytju-hjal og mælgin mín, mér til falls koma ætti; en, Jesú! blessuð þögnin þín, það allt fyrir mig bætti, skylda mín aptur er, eptir að breyta þér, þegjand' í þýðri trú, þola, nær líð eg nú; þorf væri þess eg gætti.

7. Pilatus meinti mannvits-slægð, mundi óbrygðul standa, koma vill því með kjænsku-nægð, Kóng Heródi í vanda. Kunna þá aðferð enn, allmargir veraldar menn; bið Guð, og gæt þín vel, gjarn er heimur á vél, gálausum svikin granda.

8. Kross-gángan, Jesú! þessi þín, þar fyrir eflaust skéði, svo hvílast mætti sálin mín, sætt í eilífri gleði. Embættis smak lángt, opt þó mér finnist strángt, til lofs og þócknunar þér, það vil eg gjarnan hér, líða með ljúfu geði.

## 21. Psálmur.

Um Heródis forvitni og hvíta klæðið.

Lagið. er: Jesú Kriste! þig kalla' eg á.

Þegar Heródes Herrann sá, hann varð mjøg glaður nærsta, ef hon-

honum heyrt hafdi og helst vill fá, hans ásýnd líta glærsta: forvitinn mørgu frétti ad; sýsu holdsins kapp á lagdi, med bistu bragdi. Jesús tók ecki undir þad, vid øllum spurníngum þagdi.

2. Margir finnast enn hér um heim, Heródis líkar réttir, Guds ord er skémt og gaman þeim, sem glens edur nýjar fréttir, forvitnin holdsins hnýsir þrátt, í Herrans leyndardóma, med fýsn ei fróma, aumri skynsemi ætla' ofhátt, aldrei til skilníngs koma.

3. Mannvits djúpfindni og menta glis, margir þá vilja reyna, ad ordi Drottins þeir gjøra gis, gaman loflegt þad meina. Varastú, sál mín! vitin reynd, víd þú í hærsta gyldi, þá miklu mildi, alvarlega med gódri greind, Gud vid þig tala vildi.

4. Gud gjørir ecki' ad gamni sér, glæpa-mønnum ad hóta, kals-mælgi honum og engin er, ad þú megir miskun hljóta; audmjúklega med allri gát, áttú um slíkt ad ræda, og fleiri fræda, en af þér heyrast aldrei lát, ord Drottins skulir þú hæda. 5. Heyr

5. Heyr' eg um þig, minn Herra! rædt, í hjálprædis ordi þínu, allt sýnist mér þá búid og bætt, bolid í hjarta mínu, í Sacramentinu sje eg þig, svo sem í líking skjærri, med nád mér nærri; o! hvad gledur sú áſýnd mig, engin finnst huggan stærri.

6. Heródes fýsn var holdleg sú, hann réd forvitni ginna; en mín sála af ást og trú, andvarpar þig ad finna, lofsamleg er sú luckustund, þá lít eg þig, Herra þýdi! í þinni prýdi, gef mér lokſins þann fagnadar-fund, þó fyrst um sinn hér bídi.

7. Þad kennir Herrans þognin fróm, þar nærst í annann máta: hann vill ei sínum helgidóm, fyrir hunda kasta láta, Drottinn forsmáir drambsamt géd, djarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti, hugstoltum nidur hrinda réd, hógværa sál vidreisti.

8. Heródes og hans hof-fólk litt, um Herrann akta vildi, færdi hann í eitt fatid hvitt, forsmán þad heita skyldi, til Pilatum sídan sendur var; svo komst í fridar stilli, sá offinn

 illi,

illi drambsøm øfundin ádur bar, ó-vinskap þeirr á milli.

9 Hvítt klædid gjordi hádúng þér, Herra minn Jesú sæti! dýrdar-skrúda svo skenktir mér, skínandi Guds rétt-læti, sakleysis merkid þetta þitt, þíns Fødurs gædskan hreina, þá þeckti' all-eina; hann sjer og prófar hjartad mitt, hvad sem illgjarnir meina.

10. Heilagra sálna hópur skjær, á himnum med skickun fríða, til heidurs þér, Jesú Herra kjær! hvítum klædum sig skrýda; eins hér á jørdu upp frá því, eflaust í minning slíka, med rokſemd ríka, birtust snjóhvítum búníng' í, bless-adir Englar líka.

11. Veittú, Jesú! þá miskun mér, meinleysis skrýddur klædi, þjón' eg tál-laust med trygdum þér, í trú, von og þolinmædi, réttlætis skrúda skartid þitt, skíni á sálu minni, þó líf hér linni, eins láttú holdid einninn mitt, af-klædast skjótlku sinni.

12. Forlíkast gjørdu fjandmenn tveir, þá só sitú þar, Jesú! milli; eg veit, mér gafstú miklu meir, miskun og frid-ar

ar-stilli, hjá Guði Føður, svo (til sanns), sjest engin reiði lengur, ne stygðar-strengur, daglega milli mín og hans, minn trúr Frelsari gengur.

13. Hvar sem ófriður hreyfir sér, af hoðsins veikleik bráðum, milli kristinna manna hér, móti Guðs vilja og ráðum, gäcktú þar, Jesú! milli mest, með þínum friðar anda, og varna vanda, hjálpa þú, svo vér hugsum best, í hreinum kjærleik að standa!

## 22. Psálmur.

Um krossfestíngar-hróp yfir Kristi.

Lagið er: Faðir vor, sem á himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pilatus snjøllum róm, Gýðinga lýð, og ljós gaf røk, Lausnarinn hefði enga søk, sampyckur væri og sér til þess, sjálfur Kóngurinn Heródes.

2. Sannlega Drottinn sakleysið, sjer, elskar bæði og styrkir með, hjarta og munnur hvørs eins manns, hlýtur að þjóna vilja hans. Málefnið gott sær góðann róm, gjæt þess, mín sál! og vertú fróm.

3. Sidur Gydinga sá var þá, saka-
mann einn þeir skyldu fá, um Páska
tímann frá píslum frí, Pilatus átti
ad gégna því. J frelsis minníng úr
Egyptó, aldrei baud Drottinn svoddan þó.
4. Sjá til, mín sál! ad sidvaninn, síst
megi villa huga þinn, fordastú honum ad
fylgja hér, framar enn Guds ord leysir
þér. Góð meiníng enga gjörir stod,
gylda skal meira Drottins bod.
5. Pilatus Júdum sagdi svo: sjá-
id nú gløggt um kosti tvo, eg býd
hér Jesúm ydur fram, eda mordíng-
jann Barabbam. Hann meinti' ad yrdi
helst med því, Herrann frá dauda gef-
inn frí.
6. Þú sær nú gløggt af þessu sied,
þar, sem Drottinn er ecki med, í verki,
áformi' og vilja manns, verda til einkis
rádin hans; sérvitska holdsins svikul er,
svo sem Pilatum skédi hér.
7. Yfirmennirnir allra fyrst, ósk·
udu' ad Drottinn krossfestist, almúg-
ann svo í annann stad, eggjudu mest
ad bidja um þad, Barabbas's útlausn
skyldi ské, skilinn Jesús frá lífi sé.
8. Ver-

8. Veraldar dæmin varast skalt, vogadú ecki' ad gjøra þad allt, sem Hofdíngjarnir nú hafast ad, þó heimurinn kalli loflegt þad; ef blindur leidir blindann hér, bádum þeim hætt vid falli er.

9. Hvørt þig eggjar á illverk bráð, aldrei gáck þú med þeim í ráð, vinn þú þad ei fyrir metord manns, ad missa Guds náð og vinskap hans; hvørigur annars bætir bøl, þó bádir rati' í straff og qvøl.

10. Yfir=mønnunum er því vandt, undirsátarnir hnýsa grant, eptir því, sem fyrir augun ber, audnæmast þó hid vonda er; hvad Hofdíngjarnir hafast ad, hinir ætla sér leyfist þad.

11. Jll eptirdæmi' á alla grein, eru samlikt vid mylnustein, viljir þú vera' af fári frjáls, festú hann aldrei þér vid háls; í Guds ótta frá þér glæpum hrynd, góð vertú ødrum fyrimind.

12 Húsfrú Pilati holl gaf ráð, hefdi hann betur ad því gád; gódar qvinnur þeirs gæti mest, gjarnan ástundi dæmin best. Abígael fær æru' og sæmd, illa Jessabel verdur ræmd.

13. Set eg þad nú í sinni mér, sæti Jesú! ad gjæt' ad þér: allir hrópudu allt um kríng, yfir þig dauda og krossfesting, sem lamb meinlaufast þagdir þú, þar af stendur mér huggan i trú.

14. Lögmálsins bölvan bitur og sterk, banvænn djöfull og öll mín verk, þó hrópa vilji nú hvort fyrir sig, hefnd og fordæming yfir mig, nýt eg, minn Jesú! þín í því, frá þeirra klögum verd eg frí.

15. Afellis dómsins ógna hróp, utan myrkranna vein og óp, aldrei mun kom' ad eyrum mín, eyrun blessud fyrst heyrdu þín, kall og háreysti kríngum sig, frá qvöl og ángist þad frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mér himin og jörd, helgun, frid, náð og sáttargjörd, hvört heldur eg geng út eda inn, í þínu nafni, Jesú minn! bænar-hróp mitt í hreinni trú, himneskum Gudi þócknast nú.

17. En þér til heidurs alla tíd, Englar Drottins og kristnin fríd, hrópar nú kædi á himni og jord: Hósanna, lof og þackargjörd! Amen segir og uppá þad, önd mín gladvær í hvörjum stad.

## 23. Psálmur.

### Um Krists húdstrýkingu.

Lagid er: Oss lát þinn anda styrkja.

Pilatus Herrann hærsta, húdstrýkja lætur þar. Nakinn vid stólpann stærsta, streingdur þá Jesús var, stridsmenn med svipum hroektu hann; sál min! hér sjá og skoda, hvad Sonur Guds fyrir þig vann.

2. Helgasta holdid frída, frá hvirfli iljum ad, Drottni vard sárt ad svída, svall allt af benjum þad, hvørr hans líkama limur og æd, af sárum sundurflakti, sú hýrting mjøg var skæd.

3. Blessadur dreyrinn dundi, Drottins lífs-ædum úr, sem regn þad hrad-ast hrundi, himins í dýmmu skúr, blánadi hold enn bólgnadi und, Sonur Guds sárt var qvalinn, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var, sem fjotrum færdur, fángelsi þúngu í, á ønd og samvitsku særdur, syndin mín olli því, sú daudleg sálar sóttin hér, um hvørja ød út sér dreifdi, eckert fannst heilt á mér.

5. Svipan lögmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn qvalanna kramdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt orðið mitt var mein, hjartað af hrigðum stundi, hvörgi fékkst lækníng nein.

6. Sástú þá, Jesú sæli! sár mín óbærilig, til lausnar þínum þræli, því létstú binda þig, gékkst svo undir þá grimdar qvöl, að eg qvittaður yrði, við eilíft hrigðar böl.

7. Sjúkdóm minn sjálfur barstú, svo varð eg heill með því, hörmúngum hlaðinn varstú, frá hrigðum er eg nú frí, hegníng þú fékkst svo hefð' eg frið, benjar-pínar mér bættu, bót sú þar átti við.

8. Hjartað vill hræðslan kreinkja, með hörðum sorgar sting, þegar eg gjöri' að þenkja, um þína húðstrýking, avi! eg gáf þar efni til, þú einn galdst þrjótsku minnar, þess nú eg ydrast vil.

9. Því fell eg nú til fóta, Frelsarinn Jesú! þér, láttú mig nafns þíns njóta, náð og vægð sýn þú mér, eg skal með hlýðni heiðra þig, nú og um eilífð alla, þá huggar þú, Herra! mig.

10. Gledstú, mín sál! þig græddi, Guds Sonar heilagt blód, þó synd og sorgin mæddi, sjá! hér er lækníng góð, náð fyrir reidi nú er vís, brot þrælsins Herrann bætti, bar því síns Fódurs hrís.

11. Skoda þú skyldu þína, skírlega, sál mín! nú: Sonurinn sig lét pína, svo læknud yrdir þú: heilbrygd þjóna þú honum rétt, med trú, hollustu' og hlýdni, haf gát á þinni stétt.

12. Þóknist honum ad þjaka, þitt hold orkumslum med, þýdlega því skalt taka, þolinmódt hjarta-géd, ásjer Drottinn og elskar best; Launar' ad líkjast þínum, lof er þér allra mest.

13. Eckert má sóma sídur: sí-kátur þrællinn er, þá Herrann harmqvæli lídur, haf slíkt í minni þér; hrigdar-mind hans er heidur þinn. Lát mig þad læra' og halda, ljúfasti Jesú minn!

## 24. Psálmur.

Um Purpurann og Þyrni-kórónuna.

Lagid er: Til þín, heilagi Herra Gud!

Illvirkjar Jesúm eptir þad, inn í þínghúsid leiddu, afklæddu fyrst

og fljótt þángað, fólkið allt koma beiddu, purpura-klæðis forna flík, (fást mátti varla háðúng slík), yfir hans benjar breiddu.

2. Helgunar klæðið hafð'eg mist, hlaut því nakinn að standa, Adam olli því allra fyrst, arf lét mér þann til handa; synd-anna flík eg færðist í, forsmán og mink-un hlautst af því, með hvorskyns háska' og vanda.

3. Burt-tók Jesús þá blygðun hér, berann því lét sig pína, réttlætis klæðn-að keypti mér, kann sá fagurt að skína; athvarf mitt jafnan er til sanns, undir purpura kápu hans, þar hyl eg mis-gjörð mína.

4. Þyrni-kórónu þúngri þeir, þreyngdu að Herrans enni, bál-eldi heitum brenndu meir, broddar svíðand' í henni, augun hans bæði og andlit með, allt af blóðinu fyllast réð, slíkt trú' eg kvala kenni.

5. Fyrir óhlýðni Adams var, oll' jörðin lýst í banni, ávöxt því slíkann af sér bar, orð Guðs trú' eg það sanni: þessum bölvunar Þyrni-krans, þreyngt-

var

var að höfði Lausnarans, til huggunar hreldum manni.

6. En Jesú hlýðni aptur hér, allri jörð blessun færir, heilnæmann ávöxt hún því ber, hvörja skepnu vel nærir. Fyrir gæðskunnar gjörning þann, gøfgi, lofi og prísi hann, hvað sig um heiminn hrærir!

7. Bölvan mér yfir höfði héck, hótuð í lögmáls bræði; en Jesús hana undir-géck, svo aptur eg blessun næði; Guð minn Kórónu gaf mér þ r, gæðsku og dýrðar eilífrar, hér og á himnum bæði.

8 Reyr-staf honum í hönd með spé, Hyrðstjórans þrælar fengu heilsuðu Kóngi' og krupu' á kné, kals-orð á víxl þá gengu, reyrnum hröcktu um höfuð hans, hræktu í andlit Lausnarans, með qvala-kappi strangu.

9. Þá þú gengur í Guðs hús inn, gæt þess vel, sál mín fróma! hæð' þú þar ecki Herra þinn, með hegðun líkamans tóma, beygðu holdsins og hjartans kné, heit bæn þín ástar-qveðja sé, hræsnin mun síst þér sóma.

10. Sjálfs míns verdskuldun sjé eg hér, svoddan átt' eg ad líða, um eilífð þá, sem aldrei þver, með ógn og sárum qvíða, hefði mér ecki hörmúng þín, hjálpað, Jesú! frá þeirri pín. Blessað sé nafn þitt blíða!

11. Öll þín læging er uppheſð mín, ástkjæri Jesú mildi! heiður er mér að háðúng þín, hvørr sem mér niðra vildi, höggin, sem leiðstú, hressa mig, á himnum verð eg nú fyrir þig, metinn í mesta gyldi.

12. Meðan lífs-æð er í mér heit, eg skal þig, Drottinn! prísa, af hjartans grunn' í hvørjum reit, heiður þíns nafns auglýsa, feginn vil eg í heimi hér, hlýða og fylgja í öllu þér; lát mér þína liðsemd vísa!

## 25. Psálmur.

Um útleiðslu Krists úr Þing-húsinu.

Lagið er: Konúng Davíð, sem kjenndi.

Landsdómarinn þá kriddi, Lausnarann út með sér, Gyðingum andsvør greiddi, gløgglega og svo tjer: þér

þér sjáid þennann hér! sannlega ydur eg segi, sök finnst med honum eigi, sú dauda-dóms verd er.

2. Þá géck Jesús út þanninn, Þyrni' og Purpura bar, sagdi: sjáid hér Manninn! sjálfur Dómarinn þar; Gydingar gáfu svar: burt med hann, svo þeir segja, sá skal á krossi deyja; ést þeirra ein sú var.

3. Ord og ássökun gyldti, engin í þessum stad, heiptin svo hugann fyllti, hjartad vard forblindad; sídarst þeir søgdu þad: ljóslega lifs-straffs krefdi løgmálid, þvi hann hefdi, gjørt sig Guds Syni ad.

4. Rétt løg, sem ritud finnast, rángsærdu Júdar hér, oss ber þar á ad minnast, ill dæmi forduinst vér, dómarinn Drottins er, hinn þó med heiptum klagi, og hreinann sannleik aflagi; sjái Valds-menn ad sér.

5. Þá eg heyri, minn Herra! hvorsu þú qvalinn varst, gjørvøll vill gledin þverra, galdstú mín nærsta hardt, því eg braut mikid og margt; en þá mér Gudspjøll greina, gløggt þitt sakleysi hreina, hjartad fær huggun snart.

6. Athuga, sál mín! ættum, útgaungu Drottins hér, svo vid rétt minnast mættum, hvad miskun hans veitti þér; hyggjum ad, hann út bef Þyrni-kórónu þetta, þar med Purpurann létta, blár og blódugur er.

7. Med blód-skuld og bölvun strånga, beiskum reyrd qvala-hnút, áttum vid greidt ad gánga, frá Guds nád rekin út, hrakkin í heljar sút, íklædd forsmánar flíkum, fráskúfud Drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O synd! o syndin arga! hvad íllt kémur af þér? o! hvorsu meinsemd marga, má Drottinn lída hér! þitt gjald allt þetta er, blindad hold þig ei þeckti, þegar þín flærd mig bleckti. Jesús miskunni mér!

9. En med því út var leiddur, alsærdur Lausnarinn, gjördist mér vegur greiddur, í Guds nádar-ríki inn, og eilíst líf annad sinn, blódskuld og bölvun mína, burt-tók Guds Sonar pína. Dýrd sé þér, Drottinn minn!

10. Utgeng eg ætíd sídan, í traustí Frelsarans, undir blæ himins blídan, blessi-

blessadur víst til sanns, nú fyrir nafnid hans, útborid lík mitt lidid, legst og hvílist í fridi, sál fer til sælu-rans.

11. Dýrdar Kórónu dýra, Drottinn gefur mér þá, réttlætis skrúdann skíra, skal eg og einnig fá, upprisu-deginum á, hærstum heidri tilreiddur, af heilögum Englum leiddur, í sælu þeim sjálfum hjá.

12. Svo munu Guds Englar segja: sjáid nú þennann mann! hvorn allskyns eymd réd beygja, ádur í heimsins rann, opt var þá hreldur hann, fyrir blód Lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælann sigur vann.

13. Þá muntú, sál mín! svara, syngjandi fögrum tón; lof sé mínum Lausnara! lamb Guds á hærsta trón, sigur gaf sínum þjón, um blessadar himnahallir, honum segjum vér allir, heidur, med sætum són!

14. Son Guds ertú med sanni, Sonur Guds, Jesú minn! Son Guds, syndugum manni, sonar-arf skenktir þinn; Son Guds einn eingetinn; Syni Guds syngi gladur, sérhvorr lifandi madur, heidur í hvort eitt sinn!

## 26. Psálmur.

### Samtal Pilati við Krist.

Lagið er: Hærsti Guð Herra mildi.

Hér þá um Guðs Son heyrði, heiðinn Lands-dómari, hann spyr (því hræðast gjørði): hvaðan vor Drottinn sé? en Jesus þýður þagði, (það og vel maklegt var); Pilatus bráðt að bragði, bistist og aptur sagði; vilt þú ei veita svar?

2. Min er; það mátt þú játa, maktin svo tignarlig, eg má vel lausann láta, líka krossfesta þig. Jesús svarar og segir: síst átt þú vald á mér, ef þér væri það eigi, að ofan gefið, svo megir, heiðri þeim halda hér.

3. Sá hefir synd enn meiri, er seldi mig þér á hønd. Pilatus hygg ea það heyri, hann gruñdar málin vønd. Gjørði strax grið að leita, gáfu Prestarnir ans: vægð ef þessum vilt veita, víst mátt þú ecki heita, kjær vinur Keisarans.

4. Heiðingjar halda gjørðu, hjá-guðir þeirra senn, born ættu álin á jørðu, eins

eins og holdlegir menn; hann óttast hér ef væri, Herrann Godanna kyns, hugdi því helst ad bæri, hyggilega framfæri, ransókn réttdæmisins.

5. Skurdgod sín heidnir héldu, hafandi í mestu akt, forgéfins hug sinn hreldu, hræddir vid þeirra makt; o! hvorsu framar ætti, einn sérhvorr kristinn mann, óttast Drottins almætti, med ást og blygdunar hætti, sem stoltum steypa kann.

6. Af stórri makt sig réd stæra, stoltur Pílatus hér, rétt mál til rángs ad færa, reiknadi leyfilegt sér; kann vera margann megi, meining sú villa þráit, þó lögin brjóti og beygi, bannad sé þeim þad eigi, fyrst vald þeir hafa hátt.

7. Gud er sá völdin géfur, gæti þess ædri stétt, sitt léni hvorr einn hefur, hér af Drottni tilsett, hann lét þig heidur hljóta, heidrast því af þér vill, virdingar vel mátt njóta, en varast drambsemi ljóta, róg og rángindin öll.

8. Yfirvald einn Gud sendi, undirmenn gæti þar ad, sverd Drottins hefir í hendi, heidra skulum vér þad, hlýdugir

ugir fridi halda, hlífo og forsvari ná, hverlyndis þrjótskan kalda, þúnglegri hefndar-gjalda, ad vísu sér vænta má.

9. Eins sem hvørr einn misbrýtur, eptir því strassast hann, hardari hefnd-ir hlýtur, hinn sá meira tilvann; þeim mun ei plágan þverra, sem þrjótskast í synda-rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þeckir síns Herra, þó gjörir þvert á mót.

10. Vardveiti Valdsmenn alla, vor Gud! í sinni stétt, svo varist í vondsku' ad falla, vel stundi lög og rétt; hinir í hlýdni standi, hvørr svo, sem skyldugt er, hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi, Amen, þess óskum vér!

## 27. Psálmur.

### Pílati samtal vid Gydínga á Dómstólnum.

Lagid: er: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Pílatus heyrdi hótad var, honum Keisarans reidi þar, útleiddi Je-súm annad sinn, uppsetst þegar á dóm-stólinn.

2. Gydíngum sídan sagdi hér; sjáid, þar ydar Kóngur er. Þeir bádu: tak þennann burt frá oss, brádlega lát hann deyja á kross.

3. Skal eg krossfesta Kóng ydvarn? kallar Pilatus hædnis gjarn; engann Kóng segja þeir aptur hér, útan Keisarann höfum vér.

4. Gudspjalls historían hermir frá, heiti sá stadur Gabbatha, háa steinstræti þýdir þad. Þar mátt þú, sál mín! gæta ad.

5. Vei þeim Dómara' er veit og sjer, vísst hvad um málid réttast er, vinnur þad þó fyrir vinskap manns, ad víkja' af götu sannleikans.

6. Pilatus Keisarans hræddist heipt, ef honum yrdi' úr voldum steypt; þetta sem helst nú varast vann, vard þó ad koma yfir hann.

7. O vei! þeim sem ad órétt lög, umgángast og þau tidka mjög, sannleikanum meta sitt gagn meir, svívirdíng Drottni gjöra þeir.

8. Hugä sníy eg og máli mín, minni gódi Jesú! enn til þín; Pilatus Kóng

þig

þig kallar hér, krossfesting Júdar óska þér.

9. Víst ertú, Jesú! Kóngur klár, Kóngur dýrdar um eilíf ár, Kóngur Englanna, Kóngur vor, Kóngur almættis tignar stór.

10. Þó stóðstú bundinn þar fyrir dóm, þó leiðstú hróp og qvala-róm, afsegja gjørdu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú! það er játníng mín: jeg mun' um síðir njóta þín, þegar þú, dýrdar Drottinn minn! dómstól í skýjum setur þinn.

12. Frelsadur kém eg þá fyrir þinn dóm, fagnadar-sælann heyr'eg róm, í þínu nafni útvalder, útvalinn kalla mig hjá sér.

13. Kóng minn, Jesú! eg kalla þig, kalla þú þræl þinn aptur mig, Herratign enga' að heimsins sið, held eg þar mega jafnast við.

14. Háa steim-strætið heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángað lét Jesús leiða sig, svo líkun hans komi yfir mig.

15. Jesú!

15. Jesú! þín kristni kt;3 þig nú,
Köngur hennar einn heitir þú, stjórn
þín henni svo haldi vid, ad himneskum
nái dýrdar frid!

## 28. Psálmur.

Um Pilati handa-þvott og Dóm.

Lagid er: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Pilatus sá ad sönnu þar, sín ráð
máttu ei gylda par, upphlaup
sér búid hræddist hann, hugdi ad
stilla vanda þann, fullnægja vildi
fólksins bón, sá skyldi Jesús dauð-
ans tjón, sannleika engum sinnti meir,
svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þá nam þvo,
þar nærst vid Júda-mælti svo: sjálf-
ir um ydur sjái þér, saklaus vid rétt-
láts blód eg er. Allur almúginn uppá
þad, andsvarar greidt í þessum stad:
hans blód (þó nú hann qvelji kross)
komi yfir børnin vor og oss!

3. Pilatus hafdi prófad þar, pislar-
sök Drottins engin var, fyrir og eptir
eins réd hann, úrskurda Jesúm saklaus-
ann,

ann, þó u.ǽt samvitsku sinni þvert, sjálf-
ur viljandi dæmdi bert. Guð gefi að
Yfirvoldin vor, varist þau dæmi glæpa-stór!

4. Hvað margur nú í heiminum, hér
fyrir lastar Pílatum, sem þó elskar og
ydkar mest, athæfi hans og dæmin vest?
óttinn í dómi opt fær sess, Yfir-Herr-
arnir njóta þess; almúgans hrósun olli
því, illgjarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abata-von og vina-hót, verkin dylja
þó séu ljót, líka kemur sú fordyld fram,
sem forsvarað getur Barabbam; gefst
þá raunin hvað gylda skal, gull-túngan
sú, sem Achan stal, máske og þyggi
mútur hinn, meir' enn Pílatús þetta sinn.

6. Eg spyr: hvað veldur óðygð flest,
eykst nær daglega' og fjölgar mest? um-
sjónarleysi' er orsök hærst, eigin gagns-
munir þessu nærst, miskun, sem heitir
skálka-skjól, skygnist eptir um sánþitt hól,
óttinn lögin svo þvingar þrátt þora þau
ecki' að líta hátt.

7. Fyrir fólkinu þegar þar, þvoði
Pílatus hondurnar, fyrir Guði, sér
þann gjörði grun, gylda mundi sú afsök-
un. Varastú, maður! heimsku hans,
hér

hér þó þú virstir sjónir manns, almáttugs Drottins augsýn skjær, allt þitt hjarta ransakað sær.

8. Viltú þig þvo, þá þvo þú hreint, þel hjartans bæði ljóst og leynt, ein laug er þar til edla góð, ydrunar-tár og Jesú blóð; grát þína synd, en set þitt traust, á Sonar Guds pínu efalaust, lát af illu, en ydka gott, allann varastú hræsnis þvott.

9. Blóds-hefnd á sig og born sín med, blindadur lýdur hrópa réd, eblðist svo þessi óskin kold, enn í dag bera þeir hennar gjold; athuga-gjarn og ord-var sért, einkum þegar þú reidur ert, formæling illann finnur stad, fást mega dæmin uppá þad.

10. Drottinn Jesú! sem dæmdur varst, Dómari kémur þú aptur snart, Dóms-menn láttú til-dyrdar þér, Dómana vanda rétt, sem ber; þvo þú vor hjortu' og hendur med, hrein trú varðveiti rósamt geð; þitt blód flecklaust, sem flódi' á kross, frelsi þad bornin vor og oss!

## 29. Psálmur.

### Um Barabbas's frelsi.

Lagid er: Eins og sitt barn, fadir ástargiarn.

Seldi Pilatus saklausann, Son Guds til krossins dauda; uppháups-madur sá víg eitt vann, þá frelsi fann, fékk líf, en misti nauda.

2. J myrkva-stofu sá bundinn beid, Barabbas trú' eg hann heiti. Má hér finnast ein merking greid, um mannkyns neyd, mjøg skír ad øllu leiti.

3. Barabbas frá eg Fødurs Nid, flestir lærdir menn þýdi: Adam líkist þar eflaust vid, og alt hans lid, sem á féll daudans qvidi.

4. Upphlaups-madur hann ordinn var, þá eplid í munn sér leiddi, sjálfs Guds bodordi sinnti' ei par, og sídan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. J djøfuls fjøtrum fastur lá, fánginn til eilífs dauda: allir hans nidjar út í frá, med eymd og þrá, áttu von qvala' og nauda.

6. Hér þá Jesú var helid kaldt, af heidnu dæmt Yfirvaldi, fékk Adam aptur

ur frelsið snjallt, og fólk hans allt, sem sagnar því lausnar gjaldi.

7. Nú fyrst eg Adams niðji er, nær mér gengur það dæmi; sál mín! set slíkt fyrir sjónir þér, og sjáðú hér, sannferðugt lærdóms næmi.

8. O! hvað opt hef' eg aumur gért, uppreisn mót Drottins anda! daglega því hans boðorð bert, svo bráut eg þvert, mér var þó í hlýðni' að standa.

9. Mun og ecki við manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi, ill dæmin gáfust af mér ný, og nauðir í, náúngann þar með leiddi.

10. Ofrægur er eg orðinn mest, allar sképnur það sanna, fárádum eckert forsvar sjest, fángelsið vest, fyrir því hlýt eg kanna.

11. I myrkvastofu' eg bundinn bíð, bölvan lögmáls mig hræðir, dapurt nálægist dauðans stríð, og dómsins tíð, daglega sorgin mæðir.

12. Heyri eg nú þann hjálpar róm: að hafir þú, Jesú mildi! fyrir mig liðið líflats dóm, þín líknin fróm, lausann mig kaupa vildi.

13. Sú heilaga' aflausn hrigð og sát, af hjarta mínu greiðir, syndanna leysir hleckja-hnút, og hér nærst út, úr hörðu sángelsi leiðir.

14. Hvað dauða saknæmt sást á mér, (svoddan eg miskun þecki), til dauða allt var dæmt á þér, minn Drottinn! hér, dóminum qvíð' eg ecki.

15. Líf mitt og sál þig losar nú, leyst frá dauðans sángelsi, eg lif' eða dey, það er mín trú, óbrygðul sú, í þinu, Jesú! frelsi.

16. Himneskri Páska-hátíð á, hef' eg nú þess að bíða, myrkvastofunni frelstur frá, eg fagna þá, í flocki' útvaldra lýða.

17. Svo er nú Barabbas orðinn frí, Adam og eg hans niðji; hvør kristin sála heimi í, vorn Herra því, heiðri, lofi, tilbiðji!

## 30. Psálmur.

### Um Krists krossburð.

Lagið er: Uppá fjallið Jesús vendi.

Striðs-menn Krist úr kápu færðu, og klæððu' hann sínum búníng í, sollnar undir sárt við hrærðu, þær svíðu

svidu' og blæddu uppá ný, á blessudu sínu baki særdu, hann bar sinn kross, og mæddist því.

2. Skédi svo á samri stundu, Símon nockurn bar þar ad, framandi mann, er géck um grundu, gripu Júdar þann í stad, krossinum á hans herdar hrundu, hann géck naudugur undir þad.

3. Þeir, sem (sál mín!) syndir drýgja, samvitskunni hvert á mót, undir Drottins endurnýja, ef ecki gjora' á lostum bót; vid skulum frá þeim flocki flýja, og fyrirgéfníngar bidja' af rót.

4. Uppá heimsins óþacklæti, er hér dæmi ljóst til sanns, margann læknadi Son Guds sæti, sjúkann medal almúgans, nú var ei neinn, sem bolid bæti, og bæri med honum krossinn hans.

5. Símon bædi' og syni hans báda, sjálf hér nefnir histórían, gudhræddur skal njóta náda, og nidjar margir eptir hann, miskunsemd vid menn sáráda, minnast Gud og launa kann.

6. Framandi madur mætti Kristi, med honum bar hans þúnga kross. Hér

má finna, hvørn þad lystir, hreina þyd-ing uppá oss, G,dínga fólk þá Guds nád misti, gaf Heidíngjum dyrdar hnoss.

7. Synda undir hfast mínar, opt á hvørri stundu nær, samvitskunnar sorg ei dvínar, svida-meinid illa grær, blessad-ar, Jesú! benjar þínar, bid eg myki og lækni þær.

8. Þessi krossins þúnga byrdi, þér var Drottinn lögd á bak, svo fyrirmyndan fylld sú yrdi, þá sórnar-vidinn bar Ísaak, sá þinn gánguriun sorgar stirdi, af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þjáníng þína, þig sú mæddi byrdin stríd, sannlega fyrir sálu mína, svoddan leid þín gædskan blíd; vegna þess mér virdstú ad syna, vork-unsemi nær eg líd.

10. Hold er tregt, minn Herra mildi! í hormúngunum ad fylgja þér, þó eg feginn feta vildi, fótspor þín, sem skyld-ugt er, viljinn minn er í veiku gyldi, þú verdur því ad hjálpa mér.

11. Eilífu gód svo þitt eg þekki, þjád-um viltú syna lid, látt mig, Drottinn! einann ecki, í ánaud minni þess eg bid, nafn-

nafnid mitt, þó naudir hnecki, náð þín blessud kannist við.

12. Komir þú undir krossinn stránga, kristin sála! gæt þess hér, ef holdid tekur ad mogla' og mánga, minnstú hvor þín skyldan er, láttú, sem þú sjáir gánga, sjálfann Jesúm undan þér.

13. Undir krossi illvirkjanna, aldrei hér þig finna lát, varastú glæpi vondra manna, á verkum þínum hafdú gát, idka bæn og ydrun sanna, elska gjarnan hóf og mát.

14. Haf þú, Jesú! mig í minni, mædu' og daudans hrelling stytt; born mín hjá þér forsjón finni, frá þeim ollum vanda hrytt, láttú standa' á lífs-bók þinni, líka þeirra nofn, sem mitt!

## 31. Psálmur.

Prédikun Krists fyrir qvinnunum.

Lagid er: Sá frjáls vid logmál fæddur er.

Fólkid, sem Drottni fylgdi út, fyllrist margt ángri hordu, qvinnurnar grétu sárt med sút, sem hans qvolaumka gjordu.

2. Snéri til þeirra Son Guds sér, sagdi þá Herrann mætur: grátid þér ecki yfir mér, o! Jerúsalems dætur.
3. Sonu ydar og egin eymd, eflaust þér gráta megid, nálgast sú tíd, sem nú er geymd, nær þér harmandi segid:
4. Sæl nú óbyrjan barnlaus er, og brjóst þau ei sogin vóru, hrynji yfir oss hálsarner, hædir og fjøllin stóru.
5. Ef gjørt er svo vid þad græna trè, (gèta hvørr til þess nædi), hvad hid pornada þá mun skè? þad trú'eg Jesús rædi.
6. O! hvad veraldar virding er, volt og svikul ad reyna, gæt þess, mín sál! og sjádú hèr, sannprófad dæmid eina:
7. A Pálma sunnudag sjálfur inn, Son Guds'í borg nam rída, ástvinir hans þad sama sinn, súngu lof án alls qvída.
8. Fám dogum sídar sjálfur út, særdur med kross nam gánga, þad hlutu hans vinir ad sjá med sút, sorg hjartans báru stránga.
9. Hafi svo verid volt og flá, veroldin Herra sínum, hvørs má sèr vænta þrællinn þá? þess gæt í huga þínum.

10. Þeim, sem hán býdur blídleik sinn, búin er sorgin mesta; hyrdtú því aldrei huga þinn, vid hana, mín sál! ad festa.

11. Sannlega skyldugt segi eg mér, sára þá qvøl ad gráta, sem Drottinn Jesú! þúngt ad þér, þreyngdi í allann máta.

12. Samt er þér ecki þént med því, þótt eg þig aumka vildi, eilífa hátign ertú í upphafinn, Jesú mildi!

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvitsku minnar, orsök eg til og efni gaf, allrár hørmúngar þinnar.

14. Erfidi hef eg aukid þér; ofþúngt med syndum mínum, glæpanna, sem eg gjørdi hér, galdstú á holdi þínu.

15. Hrædist eg mér sé hulin geymd, sú hefndar pínan strânga, því eg vann til ad eilíf eymd, yfir mig skyldi gánga.

16. En þó gled eg mig aptur vid, ávøxtinn qvala þinna, þar af ødlast eg frelsi og frid, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-lát, er sál helst þjádu mína, snýst í fógnud og fegins-grát, fyrir þá miskun þína.

18. Bið eg nú, Jesú blíði! þig, sem bót mér gjörðir vinna: lát engann gjalda eptir mig, illsku né synda minna!

## 32. Psálmur.

### Um græna og visna tréð.

Lagið er: Nú kom heiðinna hjálpar-ráð.

Greinir Jesús um græna tréð, gét-ur hins visna einnig með. Við skulum, sál mín! skoða' á ný, skirann lærdóm á máli því.

2. Frjófgunar eikin vöxtuð væn, vel-blómguð stóð með laufin græn, þegar á jörðu sást til sanns, Son Guðs íklædd-ur holdi manns.

3. Lífsins ávexti ljúfa bar, læknaði Jesús sóttirnar, frá djöfli leysti' og dauð-ans pín, daufum gaf heyrn enn blind-um sýn.

4. Af hvörri grein draup hunáng sætt, hjálpræðis kénning' féck hann rædt, öll hans umgengni ástúðleg, ángráðar sálir gladdi mjög.

5. Guði var þeckt það græna tréð, gloddust himnar og jörðin með; í hans fæð-

fæding Pad vitnast vann, og vid Jórdan
på skírdist hann.

6. Réttlætis allann ávoxt bar, inn
til kross-dauda hlýdinn var, saklausa
lambid Son Guds einn, af synd og lít-
um klár og hreinn.

7. Þó mátti ei Pad edla tré, ángur-
laust vera' á jördunne, Guds reidi storm-
ur geysa vann, geck Því ressingin yfir hann.

8. Ef Þú spyr ad: hvad valda vann,
vildi Gud láta saklausann, Soninn kom-
ast í sorgir Þær, sem honum var Þó
hjarta kjær?

9. Þú skalt vita ad visnad tré, var
mannkyn allt á jördunne, ofan ad rót-
um uppÞornad, ávoxt ránglætis færdi-Pad.

10. Skadsemdar tréd sem skémdi jörd,
skipadi Drottins reidi hörd uppÞöggva,
svo Pad ecki Þar, akrinum sé til spill-
ingar:

11. Vor Jesús mönnum vægdar bad,
vinnast mátti' ei ad fengist Pad, utan
hann tæki uppá sig, illverka gjöldin
hriggilig.

12. Herrann klæddist holdi Þá, híng-
ad kom til vor jördu á, vifnadri eik

gafst vokvan góð, þá varð úthelt hans dyra blóð.

13. Saklaus því leið hann sorg og háð, syndugt mannkyn svo sengi náð, við græna tréð var hrakið og hrist, hér af það vísna blómgadist.

14. Guðs dyrdar sæti sitt hold í, Sonurinn mátti ei hefja því, fyrr enn í heimi harða neyð, hafði þolað og krossins deyð.

15. O! hvað manns hold er heimsku fyllt, hriggilega úr máta villt, viljand' í löstum liggur það, leikur sér allskyns glæpum að.

16. Margir ætla, fyrst ecki strax, á fellur hefndin sama dags, Drottinn þá aldrei muni meir, minnast á það, sem gjörðu þeir.

17. Því góða trénu hyrmt var sízt, þurrum fauskt mun þá bálið víst; hafi Faðirinn hyrt sinn Son, hefndar mun þrællinn eiga von.

18. Ef nú Guðs mildin ástúðlig, óhegnda, sál mín! líður þig, hans þolinmæði haldrá hér, hjálpræðis meðal gefið þér.

19. Visnad tré eg ad vísu er, vægdú, réttlættis Herra! mér, gædskunnar eikin græn og fín, geymdú mig undir skugga þín.

20. Von er ad mér sé mótkast víst, mun eg umflýja daudann síst, holdid má ei fyrir utan kross, eignast á himnum dýrdar hnoss.

21. Tæpti eg mínum tráar-staf, á tréd, sem drýpur hunáng af, sjón hjartans ollu ángri í, upplýsist nær eg smacka af því.

22. Þegar mér gánga þrautir nær, þér snú þú til mín, Jesú kjær! hjartad hressi og huga minn, himneskur nádar-vökvi þinn!

## 33. Psálmur.

### Um Krists krossfestíngu.

Lagid er: Konúng David, sem kjenndi.

Kom loks med krossins byrdi Krístur i Hausa-stad: (orþjádur s. á eg hann yrdi) edik galli blandad, honum þeir héldu ad: Drottinn vor dýrdar mildi, drecka þó ecki vildi, þá hann smackadi pad.

2. Fals undir fogru máli, fordýdar hræsnin ber, vinátta temprud táli, og trúarlaus ýdran hér, edik gall-blandad er, soddan súrdreggja víni, (þó sjálft glislega skíni), Herrann hryndir frá sér.

3. Þad tek eg víst til þacka, þá þú vilt, Drottinn kjær! súrt med þér sjálfum smacka. Se þín miskunin skjær, í hvorri neyd mér nær! gall-beiskju bolvuninnar, og bikarinn heiptarinnar, burttak þú frá mér fjær!

4. Nakinn Jesúm á jørdu, Júdar krossfestu þar, med heiptar sinni hørdu, hendur og fæturnar, teigt allt og togad var, géck svo járn-gaddur nístur, gégnum lófa og ristur, skinn og bein sundur skar.

5. Tveggja mordíngja milli, miskunar Herrann héck, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyrr meir um þad géck, rædir svo Ritning þeck: þjón minn sá einn útvalinn, er med spillvirkjum talinn, forsmán mjøg þúnga féck.

6 Nú eg minnist á nærsta, nakinn þá Adam stód, vid tred med hørmúng hærsta, hjarta-sorg, bøl og mód, því verk

verk hans vóru' ei góð: innvortis ángr-
id qvaldi, undir trjánum sig faldi; þess
galdt øll heimsins þjóð.

7. Nú aptur Jesús nakinn, negldur
á trénu stóð, píndur, húdstrýktur, hrak-
inn, hjartans bar sárann móð; þó vóru'
øll verk hans góð: einn fyrir engum
faldist, opinberlega qvaldist, þess naut
øll heimsins þjóð.

8. Horfi' eg á hendur þínar, Herra
minn Jesú kjær! fyrir misgjørdir mín-
ar, meinin slík lidu þær, blód-dreyrinn
dundi skjær, saurgun sálar og handa,
sem mér komu í vanda, af hreint med
øllu þvær.

9. Fús var eg fram ad halda, feril
glæpanna hér, þess fætur þínir gjalda,
þad vard til líknar mér: Drottinn! eg
þacka þér, fram á fridarins leidir, fót-
spor mín jafnan greidir, hédan af hvar
eg fer.

10. Gud gæfi! mitt hold mætti, med þér
krossfestast nú, frá øllum illsku hætti, ósk
mín er dagleg sú, minn Herra! þad veist
þú, uppá þad ønd mín kynni, óhindrúd
gædsku þinni, þjóna med þýdri trú.

11. Einn med illrædis-mönnum, allir þig héldu þá, sem i heilagleik sönnum, sjálfur komst himnum frá, nú eg þess njóta má, af því eg er útvalinn, med ödrum Guds börnum talinn, þar treysti eg eflaust á.

12. Eg mun æ medan hjari, minnast á krossinn þinn, heimsins ljúfi Lausnari! lífgar þad huga minn, hvört eg geng út eda inn, af instum ástargrunni, ætíd med hjarta og munni, segjandi hvört eitt sinn:

13. Jesú Kristi qvöl eina, á krossinum fyrir oss skéd, sé mín sáttargjörd hreina, og synda-qvittunen, af sjálfum Gudi sjen, uppá þad önd mín vonar, i nafni Födurs og Sonar, og heilags Anda', Amen!

## 34. Psálmur.

### Fyrsta Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Þegar qvalarar krossinn á, keyrdu vorn Herra gjördu, flatur med trénu lagdur lá, Lausnarinn nidur á jördu,

and-

andlitid horfdi í þeim stad, og augun hans blessud himnum ad, hann stundi af ángri hordu.

2. Sinn fadm allt eins og barnid blídt, breiddi mót Fodurnum kjæra, blódid dundi og tárin tídt, títradi hold-id skjæra. Hér skoda madur huga þinn, hvad kunni meira nockurt sinn, Drottinn til hefndar hræra?

3. Ovinum fridar blídur bad, brunnur miskunarinnar, hann vill þeir njóti einninn ad, ávaxtar pínu sinnar; sagdi: Fadir, þeim fyrirgéf þú! forblindadir ei vita nú, sjálfir, hvad vondt þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærdú af, lundserni þitt ad stilla, högværdar dæmi-gott hann gaf, nær gjora menn þér til illa: blót og formæling varast vel, á vald Guds allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

5. Pétr- þú vid adra saklaus sért, sannlega skalt þess gæta, samt fyrir Guði sekur ert, så á þig frjálst ad græta; illir menn eru'i hendi hans, hyrtíngarvendur syndugs manns, enginn kann þess ad þræta. 6. Ovini

6. Ovinum ills þó óskir hér, ei minkar heiptin þeirra, óþolinmædi eykur þér, afrækir bod þíns Herra, þú styggir Gud med svoddann sid, samviskan mjog þar sturlast vid, tjón þitt verdur því verra.

7. Upplýstu hug og hjarta mitt, Herra minn Jesú sæti! svo ad eg dýrdar dæmid þitt, daglega stundad gæti, þeir, sem ófor-þént ángra mig, óska eg helst ad betri sig, svo hjá þér miskun mæti.

8. Heimsins og djofuls hreckja-vjel, holdid þrálega villa, þess vegna ecki þeck' eg vel, þó nú margt gjor'eg illa; beri svo til eg blindist hér, bid þú þá, Jesú! fyrir mér, þad mun hefnd harda stilla.

9. Eg má vel reikna aumann mig, einn í flock' þeirra manna, sem í qvolinni þjádu þig, þad vóru gjold syndanna; en þú, sem bættir brot mín hér, bid þú og lika fyrir mér, svo fái'eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú badst fridar fyrir þá, er forsmán þér gjordu mesta, vissulega eg vita má, viltú mér allt hid besta; því eg er Guds barn og bródir þinn, blessadi Jesú Herra minn! nád kann mig nú ei bresta.

11. Allra sídast þá á eg hér, andláti mínu ad gégna, sé þá, minn Gud! fyrir sjónum þér, Sonar þins pínan megna, þegar hann lagdur lágt á tré, leit til þín augum grátande, vægdú mér þá hans vegna!

## 35. Psálmur.

### Um yfirskriftina á krossinum.

Lagid er: Máttúran oll og edli manns.

Utskrift Pilatus eina lét, yfir krossinum standa: Jesús nefndur af Nazareth, nýr Kóngur Gydinga landa. (Drottni med sann, Dómarann fann, dauda sok enga stærri). Margur las þad, í þessum stad, því hann var borg svo nærri.

2. Þad var ritad og þanninn sett, í þrennslags túngumáli. Valdsmenn Júda þad vissu rétt, vilja því Pilatus brjáli; hann ansar greidt, ei skyldi neitt umbreytt og framar tjádi: hvad skrifad er, skal standa hér. Svo skédi' af Drottins rádi.

3. Þar nú á krossi Herrann heck, hér að, mín sála! gætum, virdíngar titil fagrann seck, med forpríss saklepsis mætum, ad hjálpar-fús, heitir Jesús, heimsins Lausnarinn gódi, hvor díofli frá, oss frelsa má, flecklaus med sínu blódi.

4. Nazarenus hann nefnist þar, nátt-úru spilling manna frásk'ilinn einn ad vísu var, velþecka hlydni sanna, syndi hann hreint, ljóst bædi' og leynt, lifanda Gudi einum, hans tignar Son, trúr, forsjáll þjón, tryggur í øllum greinum.

5. Kóngur Gydínga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davíds stól skal erfa einn, aldrei hans ríki þrotn-ar, Israels hrós, heidinna ljós, heitinn forfedrum lengi, svoddan titel, sómdi rétt vel, sál mín! þinn Herra fengi.

6. Svoddan virdíngu vildu hann, vondir Gydíngar sneyda, heiptar øfund-in í þeim brann, af því Pilatum beida: ordtak þad brátt, á annann hátt, úr-færa settum máta; hann qvad vid nei, því þad vill ei, þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur Drottinn samt, med djörfúng sína' og hrecki, þeim ut)st svo sem hann leyfir framt, lengra komast þer ecki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá mennirner, mega í neckru granda?

8. J þrennslags túngum var þetta skráð, þvíad vor Herrann mildi, vildi sín elska, ást og náð, allri þjóð byrtast skyldi, hvört túngumál, med hug' og sál, heidri þig, Jésú gódi! sem qvolin þín, og krossins pín, keypti frá synda módi.

9. Gésdú ad módurmálid mitt, minn Drottinn! þess eg beidi, frá allri villu klárt og qvitt, krossins ord þitt útbreidi, um landid hér, til heidurs þer, helst mun þad blessun valda, medan þín náð lætur vort láð, lýdi og bygdum halda.

10. Handskrift var ein yfir hofdi mér, hún mína sálu grætti, onnur stód, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti; Jesú! þú ert, útvalinn vert, undir Kóngsstjórnun þinni, árla og síd, um alla tíd, óhætt er sálu minni.

# 36. Psálmur.

## Um skiptin á Krists klæðum.

Lagið er: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Stríðs-menn þá høfðu krossfest
Krist, klæðnað hans tóku snart,
skiptu í staði fjóra fyrst, sá skyldi
hvørr sinn part, á kyrtil prjónaðann
ljóst með list, løgðu þeir hlutfall
djarft, fólsku-verk meðan fullgjørðist,
fólkið á horfði margt.

2. Ritning sú eina uppfylld er, áð-
ur var þar um skráð: skrúða mínum
þeir skiptu sér, skírlega það er tjáð:
hlutfallið yfir fat mitt fer, sæ eg þeis
einninn gáð. Set maður slíkt fyrir
sjónir þér, sjá Drottins miklu náð.

3. Nú máttú skilja nakinn var, negld-
ur Drottinn á kross, opinbert sáu all-
ir þar, útrunninn dreyra-foss; svoddan
forsmán Guðs Sonur bar, sannlega
fyrir oss, hér géfst ellum án hylmingar,
himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klæðin hans Krist-
nina í heimi hér, um sjórar áttir fold-
ar-ranns, flockur sá dreyfði sér; lif-kyrt-
il

ill þessi Lausnarans, líknar-ord blessad er, vilji því skipta skynse-nd manns, skiln-ing sannleiksins þær.

5. Ei lét vor Drottinn audlegd há, eptir í þessum heim, klædin, sem hann bar holdi á, enn hvorki gull né seim, þó mátti ei hans módir sá, hid minnsta af ollum þeim, íllir menn hendi yfir þau slá, aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflegá heimsins aud, hug-sýkin sturlar géd, þygg af Drottni þitt daglegt braud, duga lát þér þar med; holdid þá jordin hylur raud, hlotnast má hvmsum féd, svo þig ei ginni gyrnd-in snaud, gæt vel hvad hér er skéd.

7. Strids-manna heipt og hardhyge, Herrans qvol gat ei mykt, þó vitj nóg hann særdur sé, sinnid var íllsku-ríkt. Þeir, sem sátækann firra sé, fólsku-verk drýgja slíkt; Gud láti þig ei glæp þann ské, þú gjörir annad þvílíkt!

8. Nakinn á krossi héckstú hér, Herra minn Gud og mann! fullnadar borgan-fengin er, fyrir mig syndugann, þá fórn Drottinn og sál min sjer, sú gledst en blídk-ast hann, brúdkaups klædnad tilbjóstú mér, hann besta eg girnast kann. 9. Hent-

9. Hentuglega féll hlutur sá, Herra minn Jesú kjær! þú léts mig aumann finna' og sá, fagnadar ord þín skjær, þeim klædafaldi þreyfa' eg á, þegar mig hrigdin slær, straumar eymdanna stödvast þá, styrk nýjann hjartad fær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæandi audi sín, endast sá glaumur eitt hvört sinn, þá æfin lífsins dvín; mér láttú hlotnast, Herra minn! hlutsall nærst krossi þín, svo dýrdar fegursti dreyri þinn, drjúpi á sálu mín!

## 37. Psálmur.

### Annad Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Uppreistum krossi Herrans hjá, hans módir standa nádi, sverdid, sem fyrr réd Símeon spá, sál og líf hennar þjádi, Jóhannes einnig Jesú kjær, jafnt var þar líka staddur nær, gloggt sá ad allu gádi.

2. Sinni módur hann segja réd: Son þinn lít þú þar qvinna; vid lærisveininn líka med, Lausnarinn blídt

blídt nam inna: sjá þú og móður þína þar, þadan í frá (sem skyldugt var), sá tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti boð, sinni blessun réð heita, þeim ed foreldum styrk og stoð, stunda med elsku' ad veita; svoddan dygdanna dæmid hèk, Drottinn vor sjálfur gaf af sèr, bornunum eptir að breyta.

4. Gyrnist þú, barn mitt! blessun sjá, bjørg lífs og gæfu sína, foreldrum skaltú þínum þá, þócknun og hlýdni sýna; ángdóms þverlyndid optást nær, ólucku' og slis ad launum fær, hreckvísa hefndir pína.

5. Eckjurnar finna einninn hèr, ágætis huggun blída; Jesús allt þeirra ángur sier, umsjón þeim veitir frída, ef þær med hreinum hug' og sid, halda sig Drottins pínu vid, og hans hjálprædis bída.

6. María Drottins módir kjær, merkir Guds kristni sanna, undir krossinum optsástnær, ángur og sorg má kanna, til hennar lítur þó Herrann hýrt, huggunar ordid sendir dýrt, og forsjón frómra manna.

7. Pad

7. Það reyníst opt í heimi hér, hlut-fall Drottins ástvina, hörmúnga sverð-ið sárt þá sker, sæld lífsins gledur hina, hvörjir þó Kristum hata mest, hefir það laungum vidgengest, lítt vill því ángri lina.

8. Enn þeir, sem Jesúm elska' af rót, undir hans krossi standa, Herrans blóð-fadmi horfa' á mót, hvörn þeir líta í anda, trúar og vonar sjónin sett, sár hans og benjar skoda rétt, það mýkir mein og vanda.

9. Jesús einninn með ást og náð, aptur til þeirra litur, gefur hugsvölun hjálp og ráð, harma-bönd af þeim slít-ur, adgætin foðurs augun klár, oll reiknar sinna barna tár, adstod þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jesú minn! jafnan þá hrigdin særir; í mínum krossi krossinn þinn, kroptuglega mig nærir; sérhvört einasta sárið þitt, sannlega grædir hjartad mitt, og nýjann fögn-ud færir.

11. Þá eg andvarpa, ósks' og bid, augunum trúar minnar, lít eg hvört einast'

einast' orðið við, upp til kross-pínu þinn-
ar, strax sýna mér þín signuð sár, syndr-
ugum manni opinn stár, brunnur bless-
unarinnar!

12. Glebi-stund holds þá gefur mér, Guð minn! að vilja sínum, uppá þig, Jesú! horsi' eg hér, hjartans augunum mínum, auðlegðar gæðin líkamlig, láttú þó aldrei villa mig, frá krossins faðmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund, engra meina því kenndi, hádegis sólar hita-stund, hann ei til skaða brenndi; Jesú kross-skugga skjólið hér, skýlir þá lángtum betur mér, fyrir Guðs hefndar-hendi.

14. Hvort eg sef, vaki, sit, edur stá, í sælu' og hættum nauða, krossi þínum eg held mig hjá, horfandi' á blóð þitt rauða; lát mig einninn þá æfin þver, útaf sofna á fótum þér, svo qvíð' eg síst við dauða.

## 38. Psálmur.

**Um bríxlin sem Kristur leið á krossinum.**

Lagið er: Jesús, sem að oss frelsaði.

Heir sem að Kristi krossi senn komu og fram hjá gengu, bríxtu með

hádúng høfuden, honum til brixlis fengu; heit-ord sín hefdi hann haldid litt, Herrans musteri ad brjóta, á þremur døgum annad nýtt, efna med bygging fljóta.

2. Treir lugu svoddan fals-menn fyrst, fyrir Caiphas's dómi, af því hafdi þad útborist, eptir fjolmennis rómi, þessir þó hafi heyrt og sied, Herrans jardteiknir fridar, lýgin þeim betur gaft um ged, gengur svo enn til vídar.

3. Oldúngar landsins, fólkid flest, og flockur heidinn stridsmanna, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, med Høfdíngjum Prestanna, søgdu: ef ertú Son Guds kjær, sá þig med krapti stydur, kom þá hér, svo þad sjáum vær, sjálfur af krossi nidur.

4. Hann, sá ed ødrum hefir hér, hjálpad og læknad marga, megnar nú ecki ad sønnu sér, sjálfum úr neyd ad bjarga; svoddan hádyrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad lída, stód þad yfir um stundir þrjár, stutt var andláts ad bída.

5. Þá

5. Þá fram hjá Kristí krossi nú, kalsandi held eg gánga, sem ecki' af hjartans-ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa frí, vid holdsins fýsn sig binda, sídan falla orvænting í, eda forherdíng synda.

6. Ad þínum krossi, Kristí kjær! kém eg, sem einn framandi, gef þú mér leysi' ad gánga nær, ged mitt styrki þinn andi, svo eg hugleidi hvad til kom, hádúng, brixl-ord og pínu, leidstú, mann-gædsku mildin fróm! móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs Guds musteri' ad heita, í skírninni' þot eg þín ad naut, þad nam Guds andi veita, sídan hefir þad syndin morg sárlega gjort ad brjóta, holds náttúran, því elskar org, athæfid heimsins ljóta.

8. A þremur dogum þar á mót, því hét eg morgu sinni, med ydrun, trú og yfirbót, aptur þad bætast kynni; æ! hvad veitir slíkt ervidt hér, esnin og dug vill þverra, brixlid sem til var búid mér, bar því Jesús minn Herra.

9. J velgengninni'ei hrósa hátt, hraustleika trúarinnar; í mótlætinu' hún bilar

brátt, brest sinn eg stórann hennar, eng‑
inn fullkominn á mér sjest, ávoxtur dygda
sætur, bar þvi fyrir mig brixlid vest,
blessadur Jesús mætur.

10. Hjálpa læst eg med heilnæm ráð,
hinum, sem illa breyta, sjálfs míns líta
þó sist fæ gád, svoddan má blindni heita;
mér var þar stærsta minkun ad, mátti
hádyrdum qvida, burttók nú Jesús bol‑
id þad, brixlin þvi vildi hann lida.

11. Jesú! í þínu andláte, yfir þig
brixlin dyndu, ad svo í fridi ønd mín
sé, á minni dauda‑stundu; hádúng leidst
þú af øllum einn, alla frá hádúng leyst‑
ir, aldrei tapast sá neckurr neinn, er
nafn þitt uppá treystir.

12. Nær sem hreckvísra hádúng ný,
hjartad mitt sárt vill stánga, undir þinn
kross eg feginn flý, fram‑hjá skal eigi
gánga, þar stend eg kyrr, þó kals og spé,
qveiki mér heims óblída, uppá þig, Jesú!
einn eg sje, allt vil eg med þér lída.

13. Fyrst þú varst hæddur, Herra!
þá harma‑qvøl leidstú slíka, svo heidri
þig nú hédan í frá, himnar og jørdin
líka! allir Englar og øll heims‑mind,
undir

undir þitt vald sig hnegi, og eg þar uppá aum mannkind, Amen af hiarta segi.

## 39. Psálmur.

### Um Ræningjans ydrun.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Annar ræninginn rœddi, sem refsad þad sinn var, Herrann vorn Jesúm hœddi, hann gaf þetta andsvar: ef þar von er til nockur, ad þú Guds Sonur sért, hjálpa þér og svo ockur, úr þessum naudum bert.

2. En hinn þar uppá gégndi: ecki hrædist þú Gud! hvörjum straffs heiptin hegndi, hún var rett forþénud; vid megum vel medtaka, verka betaling þann, en þessi' er alls án saka; eptir þad sagdi hann:

3. Hugsa þú til mín Herra, þá heldur þú ríki þitt! ást Drottins ei nam þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi, (sá er huggunin viss), þú skalt á þessum degi, mér þjóna í Paradís.

4. Sjá hér fyrst straffið synda, sála mín! hryggilegt, forherdíng hjartans blinda, þó heldið qveljist frekt. Gefdú mér, Jesú gódi! eg gegni vel hyrtíng þín, med trú og tára-flódi, og tjái þér brotin mín.

5. Ræníngjans ydrun eina, athugum líka med, hann gjørdi játníng hreina, hatadi íllverk skéd, því sagdi' hann væri ad vonum, verdlaunin ránglætes, ávitun veitti honum, sem vildi' ei gæta þe's.

6. Hann trúdi': á himnaríki, hefdi vor Jesús ráð, þó syndugra sýndist líki, svo treysti á hans nád, med blygdun og hreldum huga, Herrann sín minnast bad, ljúflega lét sér duga, loford ef fengi þad.

7. Hróp og háreysti gjordu, heidnir og Júdar þar, kríngum krossinn á jordu, med kals, bríxl og hádúngar; svarad' ei Son Guds neinu, þó sjálfann þad snerti hann, en syndugs manns ordi einu, án dvalar gégna vann.

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú! gædskan þín, þér géck heldur til hjarta, hans neyd enn sjálfs þíns pín; sama hefir þú sinni, vid syndug-

ar sképnur hér, þvi aldrei elsku þinni, aptur, minn Herra! ser.

9. Illvirkinn hafdi unnid, ódáda-verkin stærst, gatu glæpanna runnid, greidt fram í daudann nærst; en Jesús ecki vildi, á þad neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; min sál! þad hugleid þú.

10. Enginn örvænta skyldi, þó ýdrast hafi seint, som er Guds Sonar mildi, sé annars hjartad hreint, þvi hvorki vid stadi né stundir, styllud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, oss býdst hans hjálpar-rád.

11. En þú skalt ecki treysta, óvissri dauda-stund, né Guds med glæpum freista, gjörandi þér í lund: nádar-tíminn sé nærsta, nógur hondum fyrer; slíkt er hættusemd hærsta; henni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, sorgin mig sturlar nú, ydrun Guds nád mér gefi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkjæri! hugsa þú til min þá, dapur er daudinn nærri, og drag mig qvolum frá!

# 40. Psálmur.

## Þridja Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Uppá ræningjans ord og bón, ansadi Guds hinn kjæri Son: þú skalt, sannlega segi eg þér, sælu-vist hafa í dag med mér.

2. Sjádu med gætni, sál mín kjær! sönn ydrun hvorju kraptad fær, uppá þad dæmid er hér rétt, öllum til lærdóms fyrisett.

3. Reidi Drottins þá uppegnd er, yfir ránglæti mannsins hér, ydranin blídkar aptur Gud, ei verdur syndin til reiknud.

4. Þó komi hostug hefndin bráð, hrein ydran jafnan finnur náð, midt í standandi straffi, því, stillist Guds reidi upp á ný.

5. Samvitsku orma sárin vest, sönn ydran jafnan grædir best, hugsvalar sál og huggar géd, heilaga Engla gledur med.

6. Bæn af ydrandi hjarta hýr, hún er fyrir Gudi metin dýr, Herrann Jesús á hvorri tíd, hegni gaf jafnan andsvör blíd.

7. Sem

7. Sem Móises med sinum staf, sætt vatn dró fordum steini af, eins fær ydr- andi andvarp heitt, út af Guds hjarta miskun leidt.

8. Játning mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi ræninginn, já, engu betri fyrir augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kém eg nú þínum krossi ad, kaun- ast þú, Jesú minn! vid þad, syndanna þúngi þjakar mér, þreyttur eg nú ad mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þín- ar hondur breidande, sárin og blódid signad þitt, sjer nú og skodar hjartad mitt.

11. Þar vid huggar mín sála sig, svoddan allt leidstú fyrir mig, þíns hjarta-dreyra heilög lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn qvolum frá. Kóngur ríkir þú himnum á; Herra! þegar mig hrellir pín, hugsadu' í þinni dýrd til mín.

13. Segdú hvorn morgun svo vid mig, sæti Jesú! þess beid'eg þig: í dag þitt hold í heimi er, hjartad skal vera þó hjá mér.

14. Í dag (hvørn morgun eg svo bid), aldrei lát mig þig skiljast vid, hugur, sinni og hjartad innt, hugsi og stundi á ríkid þitt.

15. Eins þá kémur mín andláts-tíd, ordin lát mig þau heyra blíd: í dag (segdú) skal sálin þín, sannlega koma í dýrd til mín.

16. Herra minn! þú varst hylinn Gud, þá hædni leidst og krossins naud, þó hafdir þú med hærstri dád, á himnaríki vald og rád.

17. Daudanum mót mér djorfúng nýt, daglega ver af ordi því: í dag, þá lídur ei lángt um þad, leidd verdur önd í sælu-stad.

18. O Jesú! séu ordin þín, andláts sídasta huggun mín, sál minni verdi sælan vís, med sjálfum þér í Paradís!

# 41. Psálmur.

## Fjórda Ord Krists á krossinum.

Lagid: Af djúpri hrigd ákalla' eg þig.

Um land-gjörvallt vard yfrid myrkt, allt nær frá sjöttu stundu, sólin því

því ljóma sinn feck byrgt, senn til hinnar níundu: Gud minn, (Jesús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brátt? svoddan mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugsa' ad Herrann þá, hafi med efa' og brædi, hrópad þanninn og horfid frá, heilagri þolinmædi, syndanna krapt og qvalanna stærd, kynnir hann oss, svo verdi hrærd, hjörtun frá hreckja ædi.

3. Sólin blygdast ad skína skjær, þá Skapara sinn sá lída, hún hafdi ei skuld, (þad vitum vær) þess voda meinsins strída; o! hvad skyldi þá skammast sín, skepnan, sem Drottni jók þá pín, med hrigd og hjartans qvída.

4. Ai! hvad má eg aumur þræll, ángradur nidur drjúpa, þá eg heyri, minn Herra sæll! sú harma bylgjan djúpa, geck yfir þig, þá galdstú mín; gjarnan vil eg ad fótum þín, seginn fram flatur krjúpa.

5. J ytstu myrkrum um eilífd er, óp og gnýstran tannanna, hefndar-straff þad var maklegt mér, fyrir margfjöldann glæpanna;

anna; frá þvi, Jesú! þú frelstir mig, frekt gengu myrkrin yfir þig, svo skyldi' eg þá qvøl ei kanna.

6. Í svortu myrkri það sama sinn, sorgar-raust lëtstú hljóma, þá hrópadir þú mig, Herra' inn, í himneskann dýrd-ar-ljóma; í því ljósi um eilíf ár, út-hrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs med, myrkrin svo opt mig pína, ad gloggt fær ecki sálin sied, sælu-geislana þína; Jesú rëttlætis sólin sæt, syrgjandi' eg það fyr-ir þër græt, harma-raust heyr þú mína!

8. Gud minn! segi eg gjarnan hër, geyst þó mig sorgin mædi, Jesú! eg læri' nú það af þër, það skulu mín úr-rædi, gjorvoll þá heimsins gledin dvín, Gud minn! eg hrópa vil til þín: Gud minn allt bol mitt grædi!

9. Yfirgëfinn qvad Son Guds sig, þá særdi' hann qvølin megna; yfirgëfur því aldrei mig, eilífur Gud hans vëgna, fyrir þá Herrans hrigdar-raust, hærstur Drottinn mun efalaust, grátbeidni minni gëgna.

10. Þá sólar-byrtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur ad dvína, raust og málfæri minkar mér, myrkur daudans sig sýna, í minni Þér, Drottinn sæll! Þá sé, Sonar Þins hróp á krossins trè, leid sál til lífsins mína!

## 42. Psálmur.

### Fimta Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Í sárri neyd, sem Jesús leid, sagdi hann gløggt: m i g þ y r s t i r. Svo Ritníng hrein, í hvørri grein, uppfylltist ein; um Þad mig ræda lystir.

2. Strax hljóp einn ad, þá heyrdi Þad, hitta njardarvøtt kunni, lèt á reyr-prik, drap í edik, med illt tilvik, og bar Jesú ad munni.

3. Forundrast má, mín sál! Þar á, madurinn hvør Þeß gætir, ad hann sem rád, hefir med dád, á himni' og lád, hørmúng Þvílíkri mætir.

4. Hann sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, med sorgar-skick, fèck súrt edik, fyrir svala-dryck, þá sárt hann Þorstinn neyddi. F 7 5. Því

5. Því mundi' ei hér, til hlífdar sér, Herrann edikid líka, sem vín ágætt gjöra vel sætt, fyrst gat þad bætt, hans Guddóms máktin ríka?

6. Komin var tíd, krapta-verk fríd, Kristur ei gjöra skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigd, qvöl og þrá, Herrann vor lída vildi.

7. Krapta-verk hrein, kénndu þá grein, ad Kristur Guds Sonur væri, en qvölin hans, syndi til sanns, ad syndugs manns, sektir og gjöld hann bæri.

8. Guds einka Son gjördist vor þjón, þá grædd' hann mein og qvída, offur-lamb best, hann ordinn sjest, fyrir utan brest, í því hann qvöl nam lída.

9. Af stridi því, sem stód hann í styrkleiki manns náttúru, þreytast mjög vann, því þyrsti hann, þádi vökvann, þó af ediki súru.

10. Í annann stad, merk, madur! þad, og minnst þess hvörju sinni: ad Herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni.

11. O madur! nú, þenk þar um þú, þinn hugur blygdast skyldi: Gud þyrsti hér,

hér, ad hjálpa þér, en hjartad þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygda brúdguminn gódi: Þyrstur eg er, í hrigdum hér, svo hjálpi' eg þér, úr hættu qvalanna slódi.

13. Ber honum sist, þess bid eg víst, beiskann dryck hræsnis anda, ordin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjálud láttú standa.

14. Uppá ord þín, svarar sál mín, sorgin þó málid heptir: Þyrst er eg nú, og þad veitstú, þýdi Jesú! þinni miskunsemd eptir.

15. Ecki' er hjá mér, þad þyrstum þér, þori' eg nú fram ad bjóda, nema sá tár, trú veik, þó klár, sem til þín stár, tak þad og vird til góda.

16. Lof, dýrd sé þér, lausn sécksstú mér, og létst þig svo miklu kosta, hjartad ánþ, huggast af því, ad eg er frí, frá eilífum qvala þorsta.

## 43. Psálmur.

### Sjötta Ord Kristis á krossinum.

Lagid er: Allfagurt ljós oss byrtist brátt.

Eptir ad þetta allt var skéd, edikid Jesús smacka réd, þrótt og lífs- krapta

krapta hverra sann, það er full-komnað sagði hann.

2. Orð þíns Herra með ást og trú, athuga skyldir, sál mín! þú, ef þeirra grundvöll sannann sjer, sæta huggun þau gefa þér.

3. Fyrst skaltu vita' að Guð útgaf, greinilegt lögmál himnum af, hann vill að skuli heimi í, hvörr maður lifa eptir því.

4. Algjört réttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og geðið hreint, syndalaus orð og atvik með, af oss lögmálið heimta réð.

5. Hugurinn vor og hjartað sé, í hreinni elsku rétt brennande, fyrir utan hræsni, bræði' og bann, bæði við Guð og náúngann.

6. Hvörr þetta gæti haldið rétt, hönum var lífið fyrirsett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæming við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgaðist, fullnægju gat því gjört til sanns, gengur það lángt yfir eðli manns.

8. Oþærileg var allra sekt, eptir því Drottinn gekk svo frekt, annaðhvört skyldi

skyldi uppfyllt þad, eda mannkynid fortapad.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jordu á, hædum hinna upprunninn af, undir lögmálid sig hann gaf.

10. Viljuglega í vorn stad géck, var sú framqvæmdin Gudi þeck, sedurnum hlýdni fyrir oss galdt, fullkomnadi svo lögmál allt.

11. En svo og synda sektin skéd, sannlega ydri forlíkt med, og bölvan lögmáls burtu mád, beiska qvöl leid og daudans hád.

12. Þá hann nú hafdi allt uppfyllt, sem oss var sjálfum ad gjora skyldt, og bæta öll vor brotin frí, verleja vildi hann lýsa því.

13. Þess vegna Herrann hrópa nam, hátnær á krossi stiginn fram, ad oss í voru andláte, öll hans verdskuldan huggun sé.

14. Svoddan adgæt þú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til freisis þéna kann: Þad er fullkomnad! segir hann.

15. Full-

15. Fullkomnad logmál fyrir þig er, fullkomnad gjald til lausnar þér, fullkomnad allt þad fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú! eg þacka þér, þvílíka huggun gafstú mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku' og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, óhræddur dey eg qvídalaust, því sú frelsis fullkomnan þín, forlikad hefir brotin mín.

## 44. Psálmur.

### Sjöunda Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Herra Gud í himnariki,

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dvínar: eg fel minn anda, Frelsarinn qvad, Fadir, í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá þins Herra beiskann dauda, ad ordum hans

hans og einninn gá, eru þau lækníng nauda.

3. Jesús haldinn í hærstri qvol, hlaðinn med eymdir allar, dapurt þá adgéck daudans bol, Drottinn sinn Fødur kallar.

4. Herrann vill kénna þar med þér, þín ef mannraunir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, gjerir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, fødur þinn Drottinn kalla, enn þó þig krossinn þvíngi þrátt, þad mýkir hørmúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka, svo vill Gud einninn annast þig, og ad þér miskun hjúka.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódaudleik sálarennar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, krenkist ei lífid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldar stad, Herrann sýnir þér líka, hond Guds þíns Fødurs heitir þad; hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endad líf, egi þín sál þar heima, undir hond Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú Guds hönd þig leida hér, lífs-reglu haldt þá bestu, blessad ord hans sem bodast þér, í brjósti' og hjarta festu.

11. Hryndu þú ei frá þér Herrans hönd, hún þó þig typta vildi, legg heldur bædi líf og önd, ljúflega' á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin dvín, holdid þó qveini' og skyti, uppá hönd Drottins augun þín, ætíd í trúnni líti.

13. Ad morgni' og qvöldi minnst þess vel, máls upptekt láttú þína: af hjarta'eg þér á hendur fel, Herra Gud! sálu mína.

14. Svo máttú vera viss uppá, vilji þér daudinn granda, sála þín mætir miskun þá, millum Guds Fodurs handa.

15. Hún finnur ekkért hrigdar-stríd, hormúng né mædu neina, í fridi skodar ætíd blíd, ásjónu Drottins hreina.

16. Eptirtekt mér þad einninn jók, ef eg þess gæta kunni: andláts bæn sína sjálfur tók, Son Guds af Davíds munni.

17. Bæn þína aldrei bygdú fast, á brjóst-vit náttúru þinnar, í Guds ordi skal hún grundvallast, þad géfur styrk trúarinnar.

18. Vér vitum ei hvörs bidja ber, blindleikinn holds því veldur, Guds ord sýnir þann sannleik þér, sæll er sá þar við heldur.

19. Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hönd þín leidi mig út og inn, svo aldri synd eg hafni.

20. Hondin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig hyrtir hér, hönd þína' eg gladur kyssi.

21. Daudans stríd af, kín heilög hönd, hjálpi mér vel ad þreja, medtak þá, Fadir! mína önd, mun eg svo gladur deyja.

22. Minn Jesú! andláts ordid þitt, í mínu hjarta' eg geymi, sé þad og líka síd-ast mitt, þá sofna' eg burt úr heimi.

## 45. Psálmur.

### Um Jesú Dauda.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þá Frelsarinn í Fodurs hönd, fól nú blessadur sína önd, nidur sitt höf-ud hneigdi fyrst, Herrann í því hann sáladist. Drottinn vor þanninn dó á tré, dásemd kunni ei meiri' ad ské.

2. Sancte Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun, bana-spjót eru brotin ljót, bodordum Drottins gjörd á mót; so skal deyja, sem syndgar hér, svoddann úrskurdur réttur er.

3. En þad hér heima átti víst, af því Jesús er saklaus víst, af helgum Anda med hreinum sid, hann var getinn í meyjar-qvid, Guds Fodurs veru fegurst mind, frjáls lifdi og dó af allri synd.

4. Hverki ressíng né heljar bad, hafdi nú Jesús forskuldad, hvad kom þá til ad Herrann leid, harda pínu og beiskann deyd? eda hvar fyrir hyrtist hann, hegníngar til sem aldrei vann?

5. Guds Andi þar á gjörir skil, greinir þvílíka orsök til; vegna misgjörda vorra hér, vissulega hann særdur er, því Drottinn lagdi svo fyrir sann, syndirnar vorar uppá hann.

6. Sjá hér, mín sál! fyrir syndir þín, Sonur Guds lídur qvöl og pín, hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir forskuldad, hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttu nú.

7. A mig var fallin þyngsta þraut, þviad eg Drottins lögmál braut, samvitsku særdi synda gráð, svo fèck dauðinn sterk yfirráð, til fordæmingar mèr fjöturin hans, fastlega hèldu víst til sanns.

8. Lögmál safnadi sektum mèr, sektinni daudinn eptir fer, daudinn til dómsins dregur snar, dómurinn straffid úrskurdar, straffid um eilífd aldrei dvín, eilíf því var hin þyngsta pín.

9. Lögmálid hèr sig forgreip fyrst, felldi þad dóm yfir Herrann Krist, þad baud ad sá bölvadur sè, sem bana lídur á einu trè, djarflega eptir því daudinn gèck, Drottinn frá lífi skilid fèck.

10. Sèkt þá, sem lögmál setti mèr, sjálfur borgadi Jesús hèr, þad misti sína makt í því, mig verdur nú ad láta frí, daudans broddur var brotinn þá, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur daudi deyddur er, daudi Jesú þad vinnur hèr, dýrt metur Drottinn dauda minn, daudi! hvar er nú broddur þinn? daudinn til lífs nú stutt er stig, stórlega daudinn batar mig.

12. Dauðinn því orkar einn til sanns, útslöckna hlytur lifið manns, holdið legst í sinn hvíldar-stað, hans makt nær ecki lengra' enn það, sálin af öllu sári frí, flutt verdur himna sælu í.

13. Í þínum dauda, o Jesu! er min lífgjöf og huggun trú, dásemdar kraptur dauda þíns, dreyfist nú inn til hjarta míns, uppá það synd og illskan hver, út af deyji í brjósti mér.

14. Þú hnegdir þinu hofdi ljóst, Herra! þegar á krossi dóst, med því bendtir þú mér það sinn, ad minnast jafnan á dauda þinn; eins þá eg dey, skulu augun min, upplita, Drottin sæll! til þín.

15. Fyrir þann deyd, sem þoldir þú, þig bid eg, Jesú! um það nú, ad gefi mér þin gædskan blíd, góda kristins manns dauda tíd, hold mitt lát hvílast hægt med frid, hönd þín sálunni taki vid!

## 46. Psálmur.

Um teiknin, sem urdu vid Kristz dauda.

Lagid er: Þá linnir þessi likams vist.

Þegar Kristur á krossins tré, kannadi daudann strída, teikn og stórmerki

merki mestu-ské, mælir svo Ritníng
frída, musteris-tjaldid mjøg umvendt,
í midju vard ad rifna i tvent, hrist-
ist jørd harla vída.

2. Sundur-klofnudu bjørgin blá,
byrgd leidin opnast fóru, likamir
daudra lifna þá, lít hér þau undur-
in stóru, eptir Lausnarans uppris-
inni borgina vitjudu, af sumum þar
sjenir vóru.

3. Hvad hér historían hermir rétt,
hygg ad því, sál mín mæta! Þér til
lærdóms er þad framsett, þess áttú vel
ad gæta, jørdin skalf þegar Jesús dó,
jafnvel þeir hordu klettar þó, sýndu
viedaumkun sæta.

4. Steini hardara' er hjartad þad,
sem heyrir um Jesú pínu, gefur sig þar
þó ecki ad, ann meir gjálífi sínu, kann
vockud svoddan kaldt hugskot, Kristí
dauda ad girnast not? Gud stjórni
gédi mínu!

5. Þad má undra hin þúnga jørd,
þreydi ei kyrru'ad halda, blágrýtis sinn-
in bjørgin hord, bresti lidu margfalda,
holdid þó ei ne hjartad manns, hrigg-

ist vid pínu Skaparans, sem hans þö hlaut ad gjalda.

6. Fortjaldid sýnir sannleik þann, sundur þá rifna nádi, aftakast skyldi ogn fyrir sann, eptir Guds settu rádi, Gydínga-kynsins kóngleg stjórn, Kénnivaldid og logmáls fórn, sem Ritníng sjálf um spádi.

7. Hindran réd ollum ærid stór, inn í Guds ríki banna, því veldur synda-sektin vor, og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dýrstann deyd, Drottinn tilbjó oss opna leid, hédan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm, hofum vér frelsi' ad gánga, þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga, sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams gledi-skaut, eptir heims hormúng lánga.

9. Frelsarans dauda einninn ad, ondud líkin hér njóta, gudlegur kraptur gjordi þad, grafirnar opnast hljóta, því Drottins Jesú-daudi' á kross, daudann sigradi fyrir oss, abl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, ad úr jordu mátti' ei neinn, madur frá dauda standa, fyrr enn tjedi vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrstur allra því uppreis hann, af eginn krapti

krapti', og þar med sann, endurlausn oss til handa.

11. Höfdinginn krossi Herrans hjá, hér med allt fólkid lika, jafnsnart, sem þetta jardteikn sjá, játníng þeir gjördu slika: sannlega hefir saklaus hann, og Son-Guds verid þessi mann, brjóst slá og brádt heim vikja.

12. Fólkid, sem harda krossins qvöl, Kristó fyrr ósta nádi, sann nú hid þýngsta' í brjósti' böl, beiskleg samvitskan þjádi; os-hastarlegann úrskurd flý, ef þú vilt vera'af sorgum frí, hætt er rasanda rádi.

13. Daudi þinn, Jesú Drottinn! þá, dýrdlegann krapt útsendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig Guds-Son medkénndi. Eg bid gædskunnar gédid þitt, géf þú vidlifni hjartad mitt, ad svo frá illu vendi!

## 44. Psálmur.

### Um Krists kunníngja.

Lagid er: O Jesú! elsku hreinn.

Kunníngjar Kristi þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og viðstadt með, að vísu margt qvennfólked, sár Jesú fengu sjeð, sorgandi báru geð.

3. Af þessu, mín sál! þú sier, sannlega hvørsu er, valt allt í heimi hér, haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlé, á dauðastundunne, vinskapur, frændur, fé, fallvalt hygg og það sé.

5. Þó viltu vinirner, veita hjálp nockra þér, vorn þeirra ónýt er, enginn dauðanum ver.

6. Lífinu hjákar hönd, þá herðir sóttargrönd, hjálpa þó engin önd, upphugsuð ráðin vönd.

7. Vinskap í synda sið, sála mín! þess eg bið, haldtú ei veröld við, viljir þú sofna' í frið.

8. Hreinann vinskap haldt þú, við Herra þinn Jesúm nú, í hreinni hjartans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. Hann einn má hjálpa þér, þá hjástoð mannleg þver, heim þig á höndum sér í himna sælu ber.

10. Það hér í sannleik sjest, er Sonur Guðs andaðest, sorgin þá særði mest, sem hann elskuðu best. 11. Krists

11. Krists born eru kross-born, við Kristum hlýðnis-gjørn, hann sýnir þeim hjálp og vørn, þó hörð sé sútar qvörn.

12. Þú skyldir þar að gá, þó þeir stæðu lángt frá, allir samhuga sjá, Son Guðs kross festann á.

13. Komið svo konur og menn, að krossinum Jesú senn, þó nauðin þreyngi þrenn, þar fæst nóg lækningen.

14. Kom þú, sál kristin! hér, sem kross og mannraunir ber, settú fyrir sjónir þér, Son Guðs, sem píndur er.

15. Uppá hans heilög sár, horfi þíns trúin klár, það mýkir trega og tár, temprar allt sorgar-fár.

16. Sértú, syndugur mann! særður um hyggju-rann, horf þú beint uppá hann, sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hvorr, sem eyr-orminn leit, af Israels manna sveit, eitrið ei á þann beit, oll stilltist plágan heit.

18. Svo stór synd engin er, að megi granda þér, ef þú á Jesúm sjer, ydrandi í trúnni hér.

19. Sje eg þig, sæll Jesú! svo sem álengdar nú, von mína og veika trú, við bið eg hressir þú.

20. Þá eg sje sárin mín, særir mig hjartans pín, sárin þá sje eg þín, sorg öll og qvídi dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kjær! aldrei svo vera þér fjær, ad sjái' eg ei sár þín skjær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verdi' og sé, vin þinn og kunninge, þó hverfi heilsa' og fé, hjálp mun þá nóg í tje.

23. Eg fel í sérhvört sinn, sál og líkama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skjól þar eg finn.

## 48. Psálmur.

### Um Krists sídu-sár.

Lagid er: Uppá fjallid Jesús vendi.

Ad qvøldi Júdar frá eg færi, til fundar senn vid Pilatum, og þess beiddu' ad ecki væri, ønduð lík á krossinum, þvi hátídin var harla nærri; hér svo Ritning greinir um.

2. Strídsmønnum hann band ad brjóta, beinin þeirra og svo var gert, helsjarstund þeir hrepptu skjóta, hinir tveir, sem grein'eg bert, en Jesum létu

létu síns lífláts njóta, límina hans ei fengu snert.

3. Stríðsmann einn með heiptar-hóti, harðlyndur gékk krossi að, Lausnarans síðu lagði spjóti, lagið nam í hjarta stað, blóð og vatn þar frá eg út fljóti, fyrr var áður spáð um það.

4. Umhugað er einum Drottni, allra sinna barna lík, í jörðu hér þótt holdið rotni, huggun traust mig gleður slík, hann vill ei týnist bein né brotni; blessuð sé sú elskan rík!

5. Guð Drottinn með gæðsku ráði, gjörði Adams síðu af, fríða qvinnu fyrst á láði, fast hann þó á meðan svaf, vaknaður þess að vísu gáði, og veglegt henni nafnið gaf.

6. Sofnaður á sinni síðu, sárið Drottinn Jesús bar, svo að af vatni og blóði hans blíðu, bygðist heilög kristnin þar, náði hún eðla nafni fríðu, nær til himna stigin var.

7. Skoða þá hvornig skírnin hreina, skiljast nú með réttu á, að vísu jafnan vatnið eina, vor líkamleg augun sjá, en trúar sjónin, svo má greina, Sonar Guðs blóð þar lítur hjá.

8. Æ! hvad má eg sælann sanna, Sancte Thómás Postula þinn, þá sídu mátti' hann sár þitt kanna, sína hønd þar lagdi inn! þú munt ei mér þjádum banna, þad ad skoda, Jesú minn!

9. Allar Jesú ædar stødu, opnadar, í qvølinne, dreyra lækir dundu' og flódu, um Drottins líf á krossins tré, nægd af lausnar gjaldi gódu, Guds Son fyrir mig lét í tje.

10. En svo eg skyldi sjá og játa, sanna elsku Drottins míns, vildi hann ecki læstar láta, lífs ædarnar hjarta síns, Þvi er, sál mín! mikil ár máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11, Opnar dyr á arkar sídu, inn um gengu sképnurnar, sem sjálfur Drottinn baud med blídu, bjargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flódi stríđu, frelsi' og líf þeim géfid var.

12 Lífsins dyr á sídu sinni setur Jesús opnar hér, svo ángrud sála adstod sinni, oll þá manneleg hjálpin þver, hvørr, sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauda leystur er.

13. Nói um sinn axkar-glugga, upp til himins litid séck, haldinn dymmum hrigdar-skugga, hátt þá vatusins flód-id géck, svo hann mætti um sidir hugga, sólar-ljóma byrtan þeck.

14. Ségnum Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, Guds míns ástar-byrtu bjarta, bædi sæ eg ad reyna og sjá, hrigdar-myrkrid sorgar-svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guds var máttug mildin prúda, Móises þá steinin sló, út til allra Ísra-els búda, ágætt svala-vatnid dró, hressti þyrsta, þjáda og lúda, þeim svo nýja krapta bjó.

16. Þá sjálfur Gud á Sonarins hjarta, sínum reidi-sprota slær, um heim-sins áttar alla parta, útrann svala-lind-in skjær, sálin vid þann brunninn bjarta, blessun og nýja krapta fær.

17. Vid þennann brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýja krapta fá, í þessi inn mig fylsnin fel eg, sargar eng-in sorg mér þá, sælann mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartad mitt er, Herrann gódi! hriggilega saurgad mjög, þvo þú þad med þínu blódi, þess af audmýkt beidi eg, vinni mér bót á mædu og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hjartans innstu ædar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta-blód og benjar þínar, blessi, hressi, grædi mig; hjartans þýdar þackir sínar, þér sé gædskan eilisig!

## 49. Psálmur.

### Um Krists greptrun.

Lagid er: Nú látum oss líkamann grafa.

Jóseph af Arimathia, edalborinn Ród-herra sá Gydinga svik vid Son Guds skéd, samþyckt hafdi þeim aldrei med.

2. Hann var Lausnarans lærisveinn, lifernis frómur dygda hreinn, Gydínga hræddist heiptar raun, hélt sig ad Kristó þó á laun.

3. Þessi um qvøldid þángad géck, þá af Pilató leisid féck, ad mætti Jesúm andadann, ofann taka og jarda hann.

4. Jó-

4. Jóseph tók strax af krossi Krist, keypti þó nýjann lín-dúk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, þángad kostuleg smyrslin bar

5. Jóseph grøf eina átti þar, útkløppud sú í steini var, í aldingardi þar allskamt frá, enginn fyrr daudur í henni lá.

6. Dýrdlega smurdu Drot'ins lík, dæmin má onnur finna slík, byrgdu med steini búna grøf, burt gengu strax fyrir utan tøf.

7. María Jacobs módir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einnin sat þar hjá, sán vors Herra greftrun á.

8. Í þeirra selskap, sál mín blíd! settu þig nidir litla tíd, greftrun þíns Herra gæt vel ad, ganglaust mun ecki vera það.

9. Vid Jesú greftrun jeg fæ sied, Jóseph og Nicódemum med; ádur þordu þeir ecki Krist, opinberlega ad-játa fyrst.

10. Nú sá þeir nærsta nýjann dug, nóga djørfúng og styrkvann hug, augljóslega svo allir sjá, elsku sem Drottni hofdu á.

11. Rjúkandi trúar horinn hér, helg-ur Andi svo vidnærir, ljómandi þar af ljósid skín, lífgar hann allt med krapti sín.

12. Huggist þeir nú sem hjartad deigt, hafa og trúar megnid veikt, bidji um styrk og stødugt gèd, stundi og læri Guds ord med.

13. Veit þú, Jesú! ad veik trú mín, vaxi daglega og elskan þín, eblist svo med mèr innvortes, ytra gód sjáist merki þess!

14. Annad þú líka merkja mátt, mis-líkar Drottni á engann hátt, þó heid-urleg sè hèr á jørd, holdi útvaldra líf-ser gjørd.

15. Mætast Guds Anda musteri, manns vár rètt-kristins líkami, því má honum veitast virdíng rètt, vel med skilling og hófi sett.

16. Erfis-dryckjur og ónýtt prjál, ecki á skyldt vid þetta mál, Heidíngja skick-un heimskuleg, hæfir Kristnum á eng-ann veg.

17. Vertu þá sjer þú sálad hold, sett vera nidur í jardar mold, hriggur! þú vert og hugsa brátt, hèr vid þú líka skilja átt.

18. Lagt

18. Lagt þegar nidur líkid sjer, láttú sem daudinn hvíslí' ad þér, lángt máske ecki lídi' um þad, legg eg þig eins í slíkann stad.

19. Gódi Jesú! fyrir greftrun þín, gef þú, sídasta útfør mín, verdi farsæl og fridsom mér, frelsud sál nái dýrd hjá þér.

20. Í þridja máta huggun hrein, hér veitist mér á alla grein: Guds Sonar hold því greftrad var, greftrun minni til virdingar.

21. Helgum Guds børnum Herrans hold, helgadi bædi jørd og mold; grofin því er vort svefn-hús sætt, svo má ei granda reidin hætt.

22. Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deyja, ad qvøl sé bægt, svo ad greftrast, sem Guds børn hér, gefdú sætasti Jesú mér!

## 50. Psálmur.

### Um vardhalds-menina.

Lagid er: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Ldúngar Júda annars dags, inn til Pílatum gengu strax, sögdu: Herra!

Herra! vèr hefum mest, i huga fest, hvad sá Falsari herma lètst.

2. Eptir þriá daga (ódt fyrir sann), uppríſa mun eg sagdi hann; vid slíku' er best ad leita lags, lát geyma strax, þessa grøf inn til þridja dags.

3. Máské likid med leyndum hljódt, læriſveinar hans taki' um nótt, og lydnum segi þad lyga-skin; þá lyst el kyn, þó verdi sú villan verri'enn hin.

4. Pilatus víst þeim vardhald fèck, vaktin strax út af stadnum gèck, grøf-inni blifu Herrans hjá, og svo til sjá, settu innsigli steininn á.

5. Gydinga hord var heiptin beisk, hjartans blindleiki' og villan treysk, þeim kunni' ei nægjast qvøl og bann, sem Kristur sann, líka daudann þeir lasta hann.

6. Fordast þú svoddan siblsku grein, svamlidins manns ad lasta bein, sá daudi' hefir sinn dóm med sèr, hvorr helst hann er, sem best haf gát á siálfum þèr.

7. Gydingar vildu veita rhrd, vors Lausnara uppriſt dyrd, en Drottins vald og visdóms rád, þess vel fèck gád, verk sitt framqvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt, grafarinnar, sem nú var rædt, orsök var meirl' ad efast þá, hvørt upp réd stá, Drottinn vor Jesús daudum frá.

9. En þeir sjálfir og er þad víst, upprísu Drottins hafa lýst, þó Kénnimenn Júda' af kaldri stygd, qvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikrád manna' og atvik ill, ónýtir Drottinn þá hann vill, hans rád um eilífd stødugt stár, og stjórnin klár, slægdin dramblátra slétt forgár.

11. Hvíli' eg nú sídast huga minn, Herra Jesú! vid legstad þinn, nær sem eg gæti' ad greftrun þín, gledst sála mín, skélfing og ótti daudans dvín.

12. Sektir mínar og syndir barst, sjálfur þegar þú píndur varst, uppá þad dóstú, Drottinn kjær! svo qvittudust þær, hjartad því nýjann fögnud fær.

13. Þú gróst þær nidur í gröf med þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins djúp, sem fyrispád finnst, þeim fleygdir innst, um eilífd verdur ei á þær minnst.

14. Svo er nú syndin innsiglud, ydrandi sála qvitt vid Gud, eilíft réttlæti

uppbyrjad, í aññanñ stad, trúud mann‑eskja þyggur þad.

15. Daudi þinn, Jesú! deydi hér, dárlega holdsins girnd í mér, grøfin þín hylji glæpi mín, fyrir Guds augsyn, ebli mér styrk upprisan þín.

16. Stein‑þró míns hjarta' úthøgg‑vin sjest, heilagur Andi vann þad best, lindúk trúar eg læt í tje, minn Lausn‑are! ylmandi smyrsl ydranin sé.

17. Svo finn' eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú! í brjósti mér, innsigli' heilagur Andi nú, med ást og trú, hjart‑ad mitt, svo þar hvílist þú.

18. Dýrd, vald, virdíng og veg‑semd hærst, vitska, makt, speki' og lof‑gjørd stærst, sé þér, ó Jesú Herra hár! og heidur klár, Amen! Amen! um eilíf ár!



# Tveir Píslar-Psálmar,

útlagdir af
Hra. Skólahaldara
Þorvaldi Bødvarssyni.

## I.

Lagid er: Adams barn! synd þín svo var stór.

Réttláti Gud! ransaka mig, reyn hjarta mitt, eg kém fyrir þig; sjá! hvert eg heils er hugar, þá hugsa' um þína, hjartans qvøl, heitustu ást og písla bøl, sút mína sálu bugar; Herra! þín písl mín heilsa sé! hvílík miskunar stórmerke, virdtist þú veræld sýna! hvenær hef' eg nóg hugleidt þad? hvenær best, sem gat vegsamad, af allri sál elsku þína?

2. Fridar-høfdingi, hetja, ráð, hins Hæsta kraptur, af Guds náð, herklædd-ist holdi' og blódi; heims synda-fórn svo ordinn ert, á sál flecklausri lídur snert, af

af eilífra eymda flóði; þinn vinur, sá þig sveik, er nær, sorg og ángist þitt hjarta slær; tekst upp Guðs reiði-tími, þér hug-fellst, píst þig helvítsk skér: hjartans Faðir! ef mögulegt er, bikar sá burtu rými.

3. Sárheitt blóð verður sveiti þinn, þú sár-þjakaſt og máttfarinn, til jarðar þér fletum fleygir; þú, Son hins Hæsta! hljúgur berst, þín bæn af ofraun þá þú skérst, ítrekuð heyrist eigi. Af Guði' í stríði styrktur þú, til straffs eudalauss sannstú nú; eilífðar ógn þig hræðir, sekt manna blóðst þig sjálfur á, í syndugra höndur gafst þig þá, guðlegu með þolgæði.

4. Þú, Guðs réttláti' og sanni Son! sjálfur barst íllvirkjanna laun, saklaus og sannheilagur, svo var það fyrri fyrispáð, framkom nú Drottins hjálpar-ráð, vor friðar- og frelsis-dagur! íllþýðið þyrsti í þitt blóð, offsann þín guðdóms dygð afstóð, svo frelsast sálir kynnu; jeg þinn mordíngja játa mig, Jesú! því allra synd á þig, hlóð Guð, svo frið vér finnum.

5. Allt til þræls mindar audvirdtist, en guddóms dygda-skarti lýst, æ er þitt ástar-hjarta; þolir svo hatur, háð og smán, hörmúngum, eymdum fullur; rán matst ecki mind Guds hjarta; þig, sem Gud hét oss, sáum vér, samt eckért er oss lysti á þér, ei mind né fegurd fríða, fyrir þér, ó Gud! athvarf mitt! andlit þeir jafnvel byrgja sitt, sáttmáls börn sjálf þig níða.

6. Offur þad, sem Guds eilíft ráð, ályktad hafdi, hvört hans náð, hlód med harmqvælum vorum, fyrir misgjörd-ir fólksins þíns, fyrir sekt brotlegs manna-kyns, qvalrædum kraminn sárum; í sak-leysi þinu þegjande, þreytir þú veg ad krossins tré, sem lamb þad sláturs bídur; fús, líkt sem hetja hugprúdust, hels-neyd, sem oss var maklegust, af ást til vor aumra lidur.

7. Eg mátti telja mín öll bein, minar höndur þeir hafa med flein, og fætur gegnum-grafid; feitir umkríngdu uxar mig; ómildra hópur gladdi sig, sína vild sjed ad hafi; eg hrópa, og mín hjálp er fjær, þeir hæda mig, sé

hann

hann Gudi kjær, hann klagi, hjálp mun kanna! madkur eg, ecki madur er nú, mig í daudans dupt leggur þú, spott lýdsins, spé mannanna.

8. Bråd qvalaranna eg ordinn er, eg hrópa, þú ei svarar mér; mig ýfirgéfa allir; þjökudum, sár þá þorstinn var, þeir rétta mér til svølunar, beiskt edík blandad galli; sem vax mitt hjarta er sundursinelt, svó sem vatni er mér úthellt, min ángist er þeim gledi; því ýfirgafstú þjóninn þinn, þraut-mæddann, ó Gud minn! Gud minn! af sálar sáru erfidi.

9. Þú hnegir nidur høfdi þín, hrópar: fullkomna borgun mín, þú deyr, jørd døptur titrar; erfidi hef eg aukid þér, ó Drottinn! sjélfdann hug eg ber, um píst pína þenki bitra; Hvad er eg, frelsi ad féckstú mér? æ! fengi eg heitast þackad þér, sjá Drottinn! vægd mér sekum; þín hjartans ást skal hvetja mig, ad hlýdnast þér, svo aldrei þig, særi med syndum frekum.

10. O! hvílík písla eilífra, eptirbíd mun þeim torthýna, sem forsmá forþénun

un þína; þeim — sem ei stunda' í sannri trú, senda ástgjøf ad þeckjast nú, til þyngra dóms þins er pína — synda-þjónum, er sífeldt þig, med syndum smána' en játa sig, forþénun þinni treysta; hvørr ord þín smáir elskar síst, hvørr ei þig elskar dæmist víst, qvøl þín hann kann ei hreysta.

11. Þú hefir heitid hjástod mér, til helgunar svo eg í þér, ávøxt stadfastur færi; þín heiløg písl mig huggar ein, hvønær sem synda banvænt mein, samvitsku hrædda særir; gjør mig brennandi' í bæn og trú, bind mig í elsku vid þig nú, þitt dæmi gef eg geymi; veri þín qvøl mín vørn í neyd, í velgengni stod, hlíf í deyd, og huggun efsta' í heimi!

## II.

Lagid er: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

O minn Jesú! øll þín pína, alla sefar hrigd og neyd, huggast eg, þá hørmúng þína, hugsa um og beiskann deyd; til lausnar allt því leidstú mér, lát

lát mig aldrei gleyma þér! þér, sem synda-sekt barst mína, saklausann þá létst þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, svik-ult mín ef freistar hold, þú æ sért mér þá í minni, þar við krossinn stóðst á fold, hæddur, qvalinn, hatadur, hugg-un vina ørsneyddur, fjøtur synda' eg fæ þá slitið, og fullur viknan til þín litið.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir, glæpa fram á breidann veg, gjálifis að glaum eg sinni, gédhraustur, nei! segi eg; heims lyst Jesúm hengdi' á tréd; þins réttlátá qvaldi géð, burt holds lyst úr brjósti mínu, bjó hún Lausnaranum þínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæða, eg þá, Jesú! með þér líð, mig þau ecki megna' að hræða, minnist eg þitt dauða stríð, þitt mér kénndi þolugt géð, þolinmæði' að sigra með; æ! eg vil þér eptir feta, efl mig bædi' að vilja' og géta.

5. Og þó hel á fund minn fari, full-truggur samt er eg; þú, mín vernd og minn Lausnari, máttir gánga sáma veg; og þú vegsemd ávannst þér, en féckst stað til-

tilbúid mér, í þíns Fødurs fridar ríki, finnst þar eckért bøl né sýki.

6. Jesú! sál opt minntú mína, ad minna vegna blód þitt rann, kross þinn daudi, qvøl og pína, qvittun synda' og lausn mér vann; þá skal øll mín æfistund, offrud þér; en hels vid blund, þig mitt andvarp effta prísa, upp til dýrdar holdid rísa.

---

## Psálmur um Jesú pínu,

útlagdur af

Sra. Þorsteini Sveinbjørnssyni.

Lagid er: Uppá fjallid Jesús vendi.

Kristur þoldi' á krossi daudann, Kristur hreinn var gjørdur synd; Krist af vina verndun snaudann, vann fordæma þjódin blind, Kristi, sál mín! kénn til nauda, Kristi skoda píslar-mind.

2. Hans kénning og hegdan bædi, hjartans aumkun vitni bar, flutu af ver-

vo[illegible] in guddóms gædi; glötudu til frelsuna, en dýrd metnu Adams sædi, á [illegible]inum píndur var.

3. Æ! mér gleyma aldrei bæri: ást[illegible]il mín hans daudi var, og lærdómur [illegible]ifs hljódfæri, líf mitt honum sig förnar; ord hans mér (ef elska' og læri), [illegible]lar sælu himneskrar.

